# ÚT UM VÖTN OG VELLI

EFTIR

KRISTINN STEFÁNSSON



# Út um vötn og velli

## LJÓÐMÆLI

eftir

## Kristinn Stefánsson



WINNIPEG, MANITOBA, 1916.
Útgefendur: Rögnvaldur Pétursson og Gísli Jónsson.
Prentari: Gísli Jónsson.



# Mótið.



Þar sem mosi styður stein
straumfalls yfir boga,
mætti hún mér árla ein
út við kalda voga.

Þegar morguns bjarta brún
brann á sævar armi,
sínar ljósu liljur hún
lagði mér að barmi.

Alt varð nýtt, svo hreint og hlýtt,
heiðið tært með daginn:
Sólris frítt og friðarblítt
fangi vafði sæinn,

Hamra, klif og gjálpar-göng
gekk hún dagleið alla.
Fótstig hennar sungu söng —
sönginn dals og fjalla.

Heyrði eg óminn lagar-lags
leggja úr bjargaskorum.
Öldumön og fossins fax
féll að hennar sporum.

Bærði í kvikri hreyfing hljóms
Hugur vængi fleyga
yfir hvítum brjósta-blóms
bikar morgunveiga.

✻ ✻

Út í bláma hugarheims —
hilling fjarra stranda,
hún er drotning draumageims
dagrenningar-landa.



# Bláklukkan.



Geislinn henni á kollinn klappar,
kringum hana golan vappar,
ljós gaf henni litinn bláa.
Fann hún um sig alla saman
ylinn leggja, — þótti gaman
höfðingsmótið stærstu stráa.

Nótt og dagur vöggu vagga,
vindur, skin og svölun dagga
fylgja barni blóms og drauma.
Faðir, móðir: sól og svörður
segja að hennar næturvörður
skúli tungl, með skinið nauma,

— Tunglið, hljótt með hyggju kaldri,
hverfrátt, glaðning léttúð, skvaldri
— tunglið hálft og gelgjugula.
Yfir ró og rós og drauma
rennur upp af djúpi strauma
Brjóstköld nóttin, djúpa, dula.

Full af dauða lífsins lita
lögð frá kumli sólarhita
Hélan lappaloðin skríður.
Vefur sig að bljúgu blómi,
blíðum hvíslar vinar-rómi:
"Ég er ástarengill fríður. — —"

Blómið horfið — rótin rotin,
raunalega niðurbrotin,
blöðin týnd, og alt í eyði!—
Úti á sverði sinugráum,
svellum hjá og ýlustráum,
æska og fegurð eiga leiði!



# Land eða ský?



Yfir breiðum alda sæ
undir þeirra skýja-blæ
út við sálar sjónhringsrönd
sýnist móta fyrir strönd.

Efinn spyr: "Hvort er þar land
eða bara þokuband?
Mun þar eigi opið haf —
als hins dauða skugga-vaf?"



# Morgunroði.



Bak við illsku og óhug manna—
ytstu myrkur hugarþels,
rís af brúnum rökkurhranna
roði lífsins fagrahvels.

Þegar synd er synd, og glæpur
svik og prettur, hvar sem finst,
þá mun rógur, dæmdur dræpur,
drepinn þegar varir minst.

Vinar orð í auga þýðu
eru þá, en burtu tál,
þegar út úr brossins blíðu
blómsturknappi horfir sál.



# Fyrir dag.



Er það dagur eða tunglið bleika
er um glugga hússins bjarmar inn?
Eða leggur litla týran veika
lampa frá, þars næturlýðir reika,
gagngert hingað glampann föla sinn?

Er það sannleiks-ljós eða lyga-glæta
ljósið það, sem vitið að sér snýr?
Hvar er sönnun? Það má lengi þræta,
þar sem daprir glampar augum mæta,
hvað þeir sé og hvað þá bak við býr.

Lífsins fölvi, mannheims mjallar-lýsa,
myrkurhverfis hæðiorð og brigsl,
fyllir nótt með nákul feigðar-ísa:
Nepjur upp af frosnum straumum rísa.
Sorg og ótti verða þær á víxl.

# Raddir.



## I.

Nú er húmað yfir öllu —
ekki nokkur stjörnuglampi.
Hátt í reykjar-hvelfing grárri
hangir tungl sem rauður lampi.

Út í vestri yfir sjónhring
einn er skíma á blikudrögum.
O'n að lágum ljóssins bjarma
lafa ský á þokustögum.

Undarlegur ómur svífur
út úr skuggageimi nætur
inn að mínum æðaslögum,
inst við mínar hjartarætur.

Þögnin leiðir enduróminn
inn á milli hugarfjalla,
þar sem út úr einverunni
æskudaga raddir kalla.

Þegar út úr einverunni
aðeins dauðar raddir kalla,
hvarflar andinn orðlaus sjálfur
inn á milli hugarfjalla.

II.

Það var hér að þrjú við sátum,
þegar sólin geislastafi
lagði yfir grænar grundir
gengin nið'r að vesturhafi.

Hér það var sem hlátur léttur,
hreinn og traustur, vonafagur,
birti yfir auga og svari,
okkar hjartna sunnudagur.

Þó var ekki einn veg miðað,
engin tákn né fyrirboðan.
Þá var farin för til landsins
fyrir handan hversdagsskoðan.

Það er þessi eftireymur,
inn á milli hugarfjalla,

sem mér heyrist út úr auðnum
inn í mína sálu kalla.

Út í geiminn, út í myrkrið
eg er að kveða, spyrja' og stari.
Sérhver minning lífræn leikur,
líkt og væri kvik á ari.



# Vegljóst.



Þegar hugans húmgu lönd
hafa leyst sín þokubönd,
Vegljós þá er vonum manns
víður heimur sannleikans.





# Kristbjörg Stefánsdóttir.

KVEÐJA.



I.

Það liggja brautir hjarta frá til hjarta
um heim og geim,
þær brautir góðs, hins göfga, hreina, bjarta—
til guðs í þeim.

Þar tálmar enginn vegfarendum veginn,
né villir frá
því ljósi, sem þar lýsir öllumegin
að lífsins þrá.

Og þar á minning mannsins dýpstar rætur,
sem mest gott var.
Og sérhvert tár, sem tilfinningin grætur,
er tærast þar.



Minn hugur drúpir yfir auðu skarði
við einrúm stilt.
Eg lát þitt frétti, er gengið var frá garði
og gröf þín fylt.

Eg fyrirgef. — En því var þögnin kalda
á þeirri slóð
með svefnsins ró, og ekki nokkur alda,
sem átti hljóð?

❖ ❖

Eg þakka fyrir æskuleiki alla
á ungdómstíð,
það sólskin dags, þó skuggar fari að falla
í fjallahlíð.

Hver gleðistund, sem hlúði að okkar högum,
mér hreim sinn ber.
Og systir mín, í liðnum lífsins dögum
þú lifir mér.

Eg þakka fyrir samferð, bros og blómin,
sem batstu' úr krans,
og fegurð þá, sem faðminn rétti' í hljóminn
til foss-slagans.

Þá stund, er gatst þú hug þinn hefjast látið
við hæstan dag,
með söknuðinum síðar varð þér grátið
um sólarlag.

Þó horfin sért og sjáanleg mér eigi,
og svali um völl,
þín morgunstjarna birtu ber á vegi,
en bakvið fjöll.

Og vertu sæl! Þér sendi' eg kveðju mína
um svifrúms spöl.
Og hægt og rótt á hvílu legg' eg þína
mín haustlauf föl.

II.

Stormkembdu haustskýin hríðug
hrákulda blæ frá sér slá.
Og deginum hallar til hafsins,
sem hallast eg sólunni frá.

Eg hverf inn í hljóðleik og nóttu,
og hrolli um mig slær,
er nálykt af rósum og runnum
í rökkri til mín nær.

Nú hugsa' eg um síðasta sönginn,
er sungu mér þrestir í skóg,
og löndin mín kyrðsælu, kæru,
í kveldroðans purpura-sjó.

Og máske þú biðjir mér byrjar
að blámaða landinu því
handan við deyjanda daginn
og draumana, myrkur og ský.

III.

Veitstu, að sumarið sækir til lands
með sólskin í dalinn?
Og hlæjandi lindirnar hoppa í dans
og heim til manns,
en þaðan í flugið til fossbúans,
í fangið hans,—
Og berast í söngtónum syngjandi vatna um dalinn?

Hvort hleypur þú eins og árgolan sprett
á æskuslóðum?
Og hefir þú fundið vorn fegursta blett,
sem fellur slétt,
með blágresið hneigt upp að hulduklett,
og heyrt hve létt
barnshlátrar okkar þar óma í vordaga-ljóðum?

# Leitin.



Þeir mæna allir upp að tindum fjallsins,
þeim öllum virðist heyri þeir til kallsins.
Um fjallsins vættinn, konginn huldu-heima,
þá hefir verið sí og æ að dreyma.

Um óravegu augað fjarlægð mælir,
og ágiskunin sínu verki hælir.
Hver rati best, þeir ræða öllum dögum,
og rifja' upp margt úr fjallsins kynjasögum.

Þeir segjast heyra kongsins röddu klingja —
í klettabeltum og í hraunum syngja.
Og vafurloga sjá, er sveigjast vindum,
er sortnar húm á efstu fjallsins tindum.

Þeir komast skamt, þeir lenda' í aur og urðum,
og eru að hrapa þar með veikum burðum.
Þá greinir á um áttir, vöð og vegi,
á vesturleið, þá halla tekur degi.

En sama röddin eilíflega ómar —
úr eyðiþögn í stormi lífs hún hljómar.
Hin sama er þráin, þreytu heitur sveitinn,
og þrautagangan — eilíflega leitin.



## Vestanskin.



Rauð eru tjöld um Ragna-stól,
roðnar kvöld og vogar,
kveykir í öldum aftansól:
Úði á földum logar.



# Elín litla.

Fædd 9. Júní 1908 — Dáin 22. Sept. 1911.
Einkadóttir Mr. og Mrs. Stefáns A. Johnson's, Winnipeg.



Þú hvarfst eins og geisli er glampaði um fald,
er gekk inn í voginn á blævaktri öldu,
en skógarnir fluttu sitt forsælutjald
að fjörum, og skuggarnir þögulu, köldu,
þeir tóku 'ann af birtunni og beygðu' á sitt vald,
og bökkunum undir í dökkvanum földu.

Svo fá voru ár þín, svo skamt var þitt skeið,
ei skuggi né blika' yfir minningu grúfir.
Og gleðin og ánægjan góðlynd og heið,
sem gekk þar í erfðir, hún blóminu hlúir,
er skildir þú eftir að endaðri leið
því einlæga, góða, sem ljósinu trúir.

Eg man er þú settist og sönginn þinn hófst
svo sæl eins og fuglinn í gróandi skógum,

og barnshugans kvæðið í kvakið þitt ófst,
þú klappaðir saman af fögnuði lófum.
Með vorblóm og sólskin í hjarta þú hlóst, —
öll haust voru fjarlæg með kuldum og snjóum.

Og lundkvika bernskan á léttstígan fót,
og líf hennar blikandi árroða geima,
því komst þú svo oftlega kát okkur mót
og kallaðir: "Pabbi og mamma' eru heima".
Sem glóknappur efstur á ungviðar rót
þig ylinn og lífið var farið að dreyma.

Við mótdrægu framtíð mun finna sér bót
í fullvissu að ekkert líf muni sér gleyma,
og sá dagur skína' yfir rokstorm og rót,
sem raðirnar alda er búið að dreyma.
Svo kemur þú aftur þér kunnugum mót,
og kallar: "Hann pabbi og mamma' eru heima".



# Skríddu í skjólið.



Klaki stíar straum í lind,
storknum síar vörum
krepjuslýið slett í vind,
sleikt úr skýjaförum.

Ef það beygir þrekið þitt,
þá í vegi er skafið,
hérna er, greyið gamla mitt,
götótt treyjulafið.



# Veðrabrigði.



Á arma þreytta, andlit hita-særð
slær eldur sólar brunamerkjum sínum,
og sviti og moldin saman eru hrærð
í soradrög á kinn og ennis-línum.
Það berst frá stritsins þunga þrauta-stunur,
í þrældóm sálar hvarflar óljós grunur.

Um eiturgufu ólguloftið heitt
fer ókyrð nokkur, vindar snöggvast mætast,
með hraða og afli öllu, er var þeim veitt,
á völlum úti falla og sundur tætast,
og þruma' úr austri skellur á og skúrin,
svo skelfur landsins undirstöðu-múrinn,

Og sólin hverfur, dregur roða-rönd
í rosans korg, sem meira' og meira dökknar,
sem marið hold, er kreista blóðug bönd,
en bjarmi dagsins eins og snjórák klökknar.

Og úfin, grett, af eldi rauð að framan,
í ærslum stormsins skýin falla saman.

Og rokið blæs upp rusl, og pappírs-blöð
í rifnum flyksum lyftast eða hníga.
Mörg hugsun prentuð hafði biðarstöð
á haug, en dansinn verður nú að stíga.
Svo skyldu veðrin okkar innri heima
í andrúms-hreinsun skarni ekki gleyma.

Á leyftur-depla, eins og bletti blóðs,
legst bikið regns með öllum sínum drunga,
og breiðir yfir öldur skýja-flóðs;
en elding blasir líkt og morðhnífs stunga
mér beint á móti á bringu mökksins svarta,
og blaðið glampar rétt við stormsins hjarta.

Á bakvið aldir elding lífsins slær,
sem æð í brjósti nýrri tíðar daga,
og fram úr sorta' um síðir skini nær
sú sól, er frjófgar gróður-snauða haga.
Um fortjald rofið feikna-svartra skýja
mér finst eg horfi' á bylting stormsins nýja.



# Ísland.



Einslega ey, vort land,
Ísland, vort hjartaband
hnýtt er um hugljúf þín svæði.
Sælilja blaða-björt,
blíðviðrið hefir gjört
stilkinn þinn grænan frá græði.

Unni því alt sem grær,
alt gott sem þroska nær,
sæblómi glitstrauma grónu.
Bylur, sem blæs það á,
blási hvern yrmling frá
mjallhvítri margblaða-krónu.

Hve sárt sem haglið ber,
hversu sem drungað er
loft fyrir geislunum glöðum,

standi það hraust og hátt,
hvít-typpt í norðurátt,
aldrei með ormétnum blöðum.



# Íslenska skáldlistin nýja.



Undrabarn sérstakt hún sögð er, —
sko, sjálf er nú ljósan á þönum,
og litla telpan lögð er
í laugartrogið hjá Dönum.



# Björnstjerne Björnson.



Það jötunfjall háa af hálöndum reis,
ið hrímstorku-gráa við illveðra-geys,
með stormhljóð í tindum en stillur við fót
og straumbrot í lindum við fannir og grjót.

Það gránaði' í þeli þá harðnaði hríð,
og hrundu' um það élin á útsynnings-tíð.
Þá sveipuðust brúnir í svartmekki byls;
og sortnuðu rúnir á bergþili gils.

Þá stóð það á verði sem lífvörður lands,
þótt lamviðrið berði upp mjallir í dans.
Það styrkti ið lága, sem leit upp úr jörð, —
hvert laufið og stráið, sem prýddi þess svörð.

Það stóð móti næðing, sem nísti það þrátt,
og náttkrapa-slæðing frá hafþoku-átt.

Það umhverfis leit, þar sem átti það sess,
að orðin var sveitin að skjólstæðing þess.

Það hratt burtu kólgunni, hnjúkurinn stóð
úr hvassveðurs-ólgunni og glóði við sól.
Þá var sem það brosti og benti með hægð
á búandans kosti og landsins síns nægð.

Og ung-gróður foldar í fjallskjóli því
varð furðuverk moldar og aðdáun ný.
Þar vor kom með langanir lang-fyrst í sveit
og lífsmagn og angan í grænkandi reit.

Og Sunnuhvols hlíðin, með sólroðið skaut
og Sigrúnu bíðandi' í reyrgresis-laut,
drakk þýðlega eiminn frá fannhvítum foss,
svo fögur og dreymin við sumarsins koss.

Þar lærði ið unga síns uppruna gang,
og ellin in þunga tók gleðina' í fang.
Og bláfögur skoppaði lindin um lág,
og lækurinn hoppaði' í steinunum á.

Þau lofuðu fjallið, því fyrir þess skjól

varð fagnaðar-kallið um glaðviðris-ból;
Þau áttu að finnast, það fyrir þeim lá,
og fá svo að kynnast þar vorkvöldum á.

Og sæfari á djúpinu mundi þess mynd,
þótt mistur það hjúpaði í stórsjó og vind.
Á hafinu landið menn þekktu af því
um þokunnar bandið er grylti-það í.

Þá hertu þeir stagið og hnýttu í röng,
en hrönnin tók lagið við föðurlands-söng,
því heim var að líta í hraðbyr um mar,
er hjálmfaxið hvíta við sjónhringinn bar.



## Kurteisi.



Sátu veislu sama bekk,
svo það öðrum gleði fékk,
eftir gömlum, góðum sið
guðsmenn tveir og ræddust við.
Sóttu út um allan heim
efniföng að ræðum þeim.

Ára hatur yfir breitt
alt var þar, og talið leitt
að flestu, sem í fjarlægð lá
og fyrir utan sjálfa þá.
Brosin sléttu yfir alt
undanfarið gaman kalt.

Forðast vildu veisluspell,
varúðin að orðum féll —
sveipti þau svo silkimjúk,
sem þau gengju í rósahjúp.
Ætluðu hver annan þó
úrkasts-mann og sauðaþjóf.



# Morgun og kvöld.



Þeir kölluðu' 'ann uppvöðslu- og ofstopamann,
og alla þá löttu, sem hvatti hann
til sjálfstraust og samúðaranda.
Þeir köstuðu steinum heim til hans
frá höfuðborg þeirra móðurlands,
og hrópuðu' 'ann föðurlands-fjanda.

Já, svona var birtingin. — Síðla dags
þeir sammála þyrptust til hátíðabrags
í kringum hann, sjötugan karlinn.—
Að kvöldi þeir lutu að leiðinu hans
með lárviðar-sveiginn og blómstur-krans,
því foringi þeirra var fallinn.



# Lýgin.



Hún telur ekki eftir þó tölti nokkur sporin,
svo tindilfætt í aurnum, þó göngu þyngi forin.
Hvern lagð, er hundstönn sleit úr reifi ráðvendninnar,
hún rekur nið'r um opið á skreppu þrælmenskunnar.
Í hugum margra vekur 'ún hlökkunar-kitlu,
því henni kvað verða svo mikið úr litlu.



# Nýja vinnukonan.



Um morgna til verks síns af geispunum grett
hún gengur með ólund og dundi.
Á kvöldin hún trítlar svo lipur og létt
á leikhús og templara-fundi.



# Á ströndu.



Í tunglskini straumgárur titra,
og tindra við hringiðu-sog,
en miðnætur máninn og aldan
slær munarheims blæ yfir vog.

Og geislinn að hrönninni hnígur,—
það hrynja í náttsvalann tár.
Og frammi er dýpra og dimmra—
úr djúpi rís andvarpan sár.

Og hljómur og litur og hreyfing
nú heyja sitt tilveru-stríð,
og framkalla margt, sem er munað,
með myndum frá liðinni tíð.

Og skuggarnir skilja og finnast
og skiftast í sundur á ný.
En stjarna, svo hljóð eins og hjarta,
sig hylur á bak við ský.

# Vordagur.



Hér er hönd mín, Vor!
Hugur léttir spor
svo sem barn í sólskininu þínu.
Opna öll þín hlið
inn á lífs þíns svið.
Lát ið únga enn þá búa að sínu.

Láttu ljóðheim þinn
lykja um anda minn, —
ber mér aftur bikar þinna veiga.
Láttu ljósblik þitt
lífið yngja mitt —
bittu því í skúr úr skini sveiga.



## Saga Bólu-Hjálmars

eftir Símon Dala-skáld.



Þeir væntu, eftir frost og fjúk í höfum,
að friðað myndi um þeirra grafar-blett.
En þetta fífl á framliðinna gröfum
forir ber nú að þeim jafnt og þétt.



## Steingrímur.



Við það unghugir Íslands kætast—:
Sem vorsins vængjablak
óður hans heyrist á heiði, er mætast
lækjarniður og lóukvak.



# Vonbrigði.



Til kaups var fylgið falt á þingi.
Svo fór í hann gikkur með hálfkæringi.

Þeir sjá engan feng í fari hans —
hann flýtur aftur til sama lands.

Og öngulinn beran upp hann dró
úr undirhyggjunnar lygna sjó.

Þá hjaðnaði brosið sem mælskan á munni,
en meiðslinu blæddi í vitundinni,

En skuggarnir hylja mörg húmsins verk,
og heimskan er langlíf og trúgirnin sterk.

Og sárið það, er hann sér nú blæða,
má síðar á annara kostnað græða!



## Gagnrýni.



Þú þykist viss þú sjáir glampa á gull
í grafnings-aur og hrjúfur-kletta-skorum.
Öll ræðan þín um það er bara bull
og blekking tóm, því þar er ekkert gull,
en mýraljós, sem flöktir yfir forum!



## Nebúkadnesar.



Þú skilur ei hvað ljóðar loftsins blær,
sem leikur þér um kinn.—
Þín sjón og heyrn er þar sem grasið grær,
góðurinn minn!



# Heilladur.



I.

Þau ganga hægt með hvítum legi.
Það hallar degi —
það húmar og hljóðnar um vegi.
Og ládeyðan mókar í loftsins þyngd,
og laufin á trjánum haustgul drúpa,
í rökkurblátt mistur sig runnarnir hjúpa,
sem vorkvöldsins-mollan sé upp aftur yngd,
og lögð yfir himin og hafið djúpa.

Um það, hversu ástin sé heilög og hrein,
þau hefja talið. Hver von á að rætast.
Og þau eru barna svo ung og svo ein,
og alt, sem er þýðast, blíðast og sætast,
þar finst honum orðið að einni rós
með æskunnar frjódögg og sólarljós. —
En skógur sem varnarmúr víggirðir ós,
og vatnið og skuggarnir mætast.

## II.

Svo deyja loksins öll dagsins hljóð.
Það dregur upp vatnsþoku gráa,
og eldmaursins lýsandi glittir í glóð
í grasi við skógkjarrið lága. —
Sá flóðgarður hrynur, sem fjölmennið hlóð,
og fámálug nóttin þegir.
'En leystir straumar fá magn og móð,
og manna' eru fjarlægir vegir.

Og kossunum fjölgar — þeir fyllast af eldi,
sem faðmlögin bálar í nætur veldi. — —

Hann lítur við eldmaursins leyftrandi glóð,
hve litfríð er höndin og kinnin rjóð.
Og brosið segir svo blíðu-milt:
"Eg býð þér mig — taktu mig, ef þú vilt,
sjúgðu mitt hunang í hjarta þér,
þitt hjártablóð aftur gef þú mér!" — —

Nú andar blækul, og frá er flett
því fortjaldi' af vatnsgufu úða,
er huldi útsýn sem héluð rúða,
svo sést á himni í heiðan blett. — —

Það glampar á eitthvað í hennar hönd,
þá heyrist eins og þá slitna bönd —
hann rekur upp óp, en enginn græðir
undina þá, sem leyndast blæðir.

III.

"Haf þökk fyrir dvölina þessa hér
og það, sem af vegi þú gekkst með mér!
Eg tek þitt líf sem greiða míns gjald,
í gildruna hljópstu — mitt dular-vald."

Það bjarmar af degi við báru-fald. . . .

Hann heyrir orðin. En alt í kring
fyrir augum hans þeytist sífelt í hring.
Hann þekkir ei sviðið. Það alt er autt,
og af dreyra er grasið blautt.
En rétt er í dauða-svefninn hann sígur,
Þá sér hann það fyrst, að hún var-gýgur.





# Kanada.

Kostaland, með gull og græna skóga,
geimur, margra konungsríkja stærð,
skraut þú átt og yndis-lundi nóga,
úthöf blá og fjöllin snævi hærð.

Borgum depluð, ótal ökrum vikuð
ertu, og mörkum beltuð fram að sæ,
ám og fljótum fossahvítum strykuð,
full af lífi' og morgunroða-blæ.

Nægtaland, með efnivið til alda
í allra þjóða bygging, tengsli sterk,
taugar stáls, sem styrkleik þínum valda,
stór og víðfræg þinna handa verk.

Þó er eins og það sé æfinlega
þennan dag, að hugir fjarlægð í
fljúgi inn á öldnu slitrin vega,
út í gegnum blárrar móðu ský.

Stígur fram af rökkri móðs og minna
myndin draumræn hugarfylgsna manns,
bendir út til upphafs-stunda sinna
Íslending' á fornar slóðir hans.

Opnast landsýn undir hvelfing bjarma;
upp á himinn ljósabaugur nær.
Inst í brjósti er sem kenni varma
æsku, er vakti horfnra daga blær.

Fóstra, þú sem lýðinn hingað lokkar
leitarmenn að þínum nægtasjóð,
þú átt að eins helming ástar okkar,
ekki meira, þótt þú sért oss góð.

Þú munt finna, er komum við að kveldi,
kynnis-minjar—því skal ekki gleymt—
neista hrotna frá þeim arineldi,
er við höfum dyggilegast geymt.



# Fyrir austan.



Dansinn var alveg á enda,
og ómurinn síðasti dó.
Sig vindlanna reykur að rjáfri
í randir grábláar dró.

Og ölvuð og ör af dansi
var æskan, og heit og rjóð.
Hún teigaði svalann frá sænum,
og söng út í nóttina ljóð:

"Með kyssandi ástir og yndi
er austrið lang-hugþekkast mér,
og vínið og syngjandi sálir
svo sætt meðan drukkið er."

"En það, sem nú amar að okkur,
er of lítil fjárneytslu-ráð.
En vestrið er glóandi af gulli,
ó, gæti eg því bara náð!"—

# Við, - fyr og nú.

13. ágúst 1884 — 13. ágúst 1909.



I.

Eg man þann dag, eg man það kvöld,
þótt margt hafi skeð á fjórðungi' úr öld.

Mér fanst þá við værum að fara' út á sjó,
hvert för skyldi heitið var óvissa þó.

Og margt frá þeim tíma' er sem mig hafi dreymt,
svo máð er það orðið, sumt vafalaust gleymt.

Eg man að við kviðum þá komandi tíð,—
því kunnáttu vantaði' að heyja það stríð,

Sem fram undan okkur oss fanst við sæjum
í framtíðarinnar skugga-blæjum. — — —

## II.

Það þyngdi í lofti með þrumur og gný,
og þungi lá beggja hugsunum í.

En brátt fyrir loftið með þrumur og gný
og þungann, sem lá beggja hugsunum í—

Þó hárið sé grátt, sem hafi' í það fent,
er heilt okkar skip, og við höfum lent.

Því við höfum bæði bjargað því,
sem bryddi með geislum hvert einasta ský.

## III.

Það líður á daginn. Við lítum með ró
á ljósblikið hallast að vestur-sjó.

Og blóm okkar fá hinn bleika lit,
og bráðum heyrum við vængjaþyt.

Og svanurinn flýgur til sólfjalla-lands,
er sumarið veifar kveðju til hans.

En enn ertu hjá mér við mannlífs mar
og minninga-fjöldinn, sem kemur þar.

Og rosans skýin risug og grá
með rökkrinu og skuggunum líða hjá.

Við lítum hinn forna, farna veg
í fjarsýn andans, þú og eg.

IV.

Vor æsku-meiður í órækt spratt,
og ísinn og kuldinn rót hans batt.

Og sökina leggjum við líkt og fyr
við lágar og þröngar heima-dyr.

Vor æsku-meiður við hrjóstrin hófst,
í hretin og kuldann hver grein hans ófst.

Með klökugt limið og blásinn börk
hann beygðist við storminn frá eyðimörk.

Við sáum í fjarlægð hvar sólskinið var—
þá sögðum við: Hann skal eg planta þar.

Og bræða klakann og búa um rót
í betri jarðvegi sólu mót.

En þurft hefir til þess þrjátíu ár
við þrælkun, hrakning, beiskju og sár.

En hálfraðrar aldar himin vorn á
við horfum nú loksins í sólar-gljá.

Og tuttugu og fimm ára samveru-sól
er sest í sinn marbláa drotningar-stól.

V.

Og enn ertu hjá mér við mannlífs mar,
og minninga fjöldinn, hann kemur þar.

Og enn þá skín dagurinn okkur í kring,
því alvara og trygðin slóu um hann hring.

Þú berð enn þinn forna brúðar-krans,
úr blómstrum frá sumri þíns innra manns.

Og sátt við hið liðna við lítum með ró
á ljósblikið hallast að vestur-sjó.

En haust er nú komið, og haustsins kul,
og hér og þar eru laufin gul.

Og grasvöxnu leiðunum lágu frá
það leggur skugga götuna á.

Margt andlit horfið, en ekki gleymt,
á einveru-stundunum fær okkur dreymt.

VI.

Við höldum til strandar og horfum út í geim.
Og hvað skyldi nú vera orðið af þeim —

Af öllum þeim, er sigldu út á þetta haf?
Hvort eru þeir lentir, eða sukku þeir í kaf?

Við göngum til sjávar og leiðumst hönd í hönd.
Á hafsbrún í vestri slær sólskinsins rönd.

Hvort verður þú mér fyrri, hvort verð eg fyrri þér
á víða þenna ægi, er hulið þér og mér.

En skipið, sem okkur héðan-burtu ber,
það bíður — það kvöldar — eftir þér og mér.

Er hafsvídd þessi auð, eða hverfist hún um lönd?
Hvort hittumst við síðar á annari strönd? —



## Vængir.



Vorið úti, og íslensk þrá
inni' í huga mínum,
finn eg vængi unga á
enn í förum sínum.



# Úthall.



Lengist skuggi hlíðar-hjalla,
hélar það, sem við hann nemur.
Skin er á eggjum efstu fjalla,
en það kvöldar — nóttin kemur.

Sumarfugl, sem frostsins helsi
flýrð að sólskins ströndum þínum,
vittu, að hún er full af frelsi
forsælan í dalnum mínum.

Þar frá bleikra laufa löndum
leggur kveðju-ómur þýður:
Hjartaslög í handaböndum
huga míns og þess, sem líður.



# Ofsi.



Vogur kraup í kastbyl tinds,
kveljur saup með teygjum.
Ygldar gaupur vatns og vinds
veðra hlaupa úr beygjum.



# Ókindin.



Flugsagna smali, fjandsamleg gleði,
fölsk eins og þýin,
ybbin í tali, önug í geði
er hún og lýgin.



# Bræðralagið

EÐA I. O. F.



Krunkaði um sinn eigin hag
austur á þingi hrafna
þetta blessað bræðralag —
búið sig að jafna.

Slægðin, vön og veiðikæn,
víða hefir gætur:
Sér í ylgjar augu græn
inn' í drefjum nætur.



# Júaníta.



Ástin þín er aska' og sót—
æfin fer að kveldi.
Öll þín bros og blíðuhót
brunnu' í fórnar-eldi.

Nætur-svipir sálarinnar
setjast þér við fætur.
Yfir sporum æfi þinnar
endurminning grætur.



# Haustkvöld.



Veðra-sorans sinan bæld
sýnir spor á bökkum.
Burt er vor og sumar-sæld,
svell í skor og slökkum.

Bjarka-fiður fallið er,
flekkjar sviðið neðra.
Skógur iðar, ekur sér,
undir hviðu veðra.

Geysast öldur ólgu-veg,
að fer kvöld með bliku;
Rán er köld og reigingsleg,
reisir tjöldin kviku.

Stækkar voða-stormsins önn,
strauma gnoðin brokkar.

Upp af froðu-fextri hrönn,
flaksast boða-lokkar.

Stormur köldum höndum hast
hrifsar völdin stærstu.
Sýður öldu-afturkast
upp úr földum næstu.

Hér á sandi hálf-tungl skín
hvítfyssandi straumum.
Mér finst andi enn til mín
ættarlandið draumum.

Þar sem föðurlandsins lag,
leikið röðul-gómum,
Sædís glöð við sól og dag
syngur löður-hljómum.



# Farfugl.



Hærra hef þig!
Fjarlægð blárri, víðri vef þig.
Farðu fjarri
þeim, sem liggja' í leyni nærri.
Sjáðu sundin
þokufull og gráleit gapa,
grunsamlega' í bugður undin.
Heyrðu hundinn
góla, gelta,
skógar honum eftir apa.
Blóðslóð belta
kafið krapa
sjáðu', og dýrið særða hrapa!
Fljúgðu ofar illviljanum,
utar landsvananum.

Sviffrár sértu.
Hærra, enn þá hærra, vertu!

Skúmaskotið
sönglaust er — og sárt er brotið
vængs og vilja
þeim, sem létt um langa vegi
léku sér á jöðrum bylja,
hafs og hylja
flutu á fönnum. —
Flyttu söng mót sól og degi,
mold og mönnum.
Ljós sem lilja,
sólgljá lát þig síðast hylja.
Fljúgðu út úr augsýn mannsins,
út til friðar-landsins! —



# Landránið.



Áin, sem ber hana' og bátinn,
blýgrá í logninu, skýrum
ljósglömpum sett er, sem sál þess er býr
í sögum og æfintírum.

Svo rær hún, in djarfa, með dökkva
dreginn í hörund og brána.
Horfir á dropana, er detta af ár
sem deplar svartir á ána.

Hún róðurinn hægir og hlustar,
heyrir hve arinskíð braka.
Fáliða er orðið um eldana þá, —
en andar dáinna vaka.

Döggin á dysjunum þrýtur,
drukkin af andvara nýjum.

Áin sjálf er sem úthelt blóð
austan frá dagroða-skýjum.

Loftið er geigur og grunur,
gufu-blátt titrandi sýður.
Hefndin, uggur og afstaðið fár,
eftir taugunum skríður.

Faðir hennar er fallinn,
frændur reknir á skóga.
Hún hörpuna grípur, þá loga' hennar ljóð,
og leyftrin í augunum glóa.



TIL

# Skafta Brynjólfssonar

og konu hans, er þau lögðu upp í Íslands-ferð 19. des. 1908.



Því farið þið ei suður í sólskins heiminn
í sælu-leit á bjartra daga fund?
Því þar sem hjörtu og höfuð nautna-dreymin
sig hvíla' á rósbeð út í myrtus-lund,
þar dregur sálin til sín unaðs-eyminn
af öldum þeim, sem vagga ljúft í blund.

Nei, þú vilt, Skafti, heldur norður halda,
þó hregg og stórsjór byggi Íslands-haf.
Og hve sem rýkur útdjúps él og alda,
er íslensk lending til—því veitst þú af.
Og þjóð þín bak við hríð og kólgu kalda
með kennimörk, sem fortíð henni gaf.

Þú velur stundum ekki blíða blæinn
að bera knörr þinn, sú hefir orðið raun.

Og einurð þín, hún endist lengur en daginn,
og aldrei sá eg hana blása í kaun.
Og þú vilt heldur slá hinn ramma slaginn,
en slyppur taka ósigursins laun.

Og þig er aldrei þokuloftið kringum,—
þar þykir máske hvasst og skýja-far,
sem vekur ys á okkar drauma-þingum
og endurhreim af því, sem forðum var,
en nú til muna er okkur, Íslendingum,
úr eigu gengið — dautt sem kulnað skarl.

En vegna þess þú virðir þá, sem berjast
og vilja heldur stríð en frið með smán,
og þá, sem innri og ytri mögnum herjast
og eru að varast gæfu sinnar rán,
þá gleður þig, að Ísland er að verjast,
—og allri góðri málsvörn fylgir lán.

En farið vel, til landsins norðurljósa!
Nú lækkar sól og þyngist vetrar-farg.
En lítið engin sund né firði frjósa
né fenntan sauð, sem elur í hrauni varg.
Með næsta vori sjáið Geysi gjósa,
og Gullfoss steypast niður fyrir bjarg.

En það, hve austrið er þar langt frá vestri
og afsökun er tengd við fjarlægð þá,
þið lesið þar úr meinhægð allra-mestri
og merkjum þeim, sem sagt er bóli á,—
það getur orðið gaman að þeim lestri
og gróði þeim, sem kann að heyra og sjá.

Eg veit þið finnið færra, er gengur öfugt,
en fjúksagnanna orðasveimur ber,
og fleira, sem er stórt og gott og göfugt,
en grunar suma í fjarlægðinni hér,
og lífið ekki eins hörkufult og höfugt
og hræðslu-kenda vanþekkingin sér.

Til fararheilla ykkur alt sé snúið:
Hver alda á sæ og stormsins bylja-fjöld.
Til heiðurs ykkur heiðloft Íslands búið
við háfjalls gnúp með norðurljósa tjöld.
Og lífið ykkur láti svo þið trúið,
að landið eigi í framtíð sæmd og völd.

Og berið okkar kveðju foldu frera.
—Hið fjarra skýrist, móðan óðum dvín.—
Er Rán og Ægir vestur vini bera,
á vegi margra sólargeisli skín.
Og megi Ísland alla daga vera
sem árdags ljós á himni barna sín.

# Til fornvinar míns,

Magnúsar Brynjólfssonar,

málafærslumanns.



Var eg endurvakinn þá,
vinar-bendinguna
þína' í hendi þar eg sá —
þökk fyrir sendinguna.*)

Svipinn kenni' eg, sá var mér
sól um tvenna morgna.
Sé eg enn í augum þér
eldinn brenna forna.

Þá í straumi starfgjörn önd
stóð við flauma-rokið,
þú hefir tauma þrátt úr hönd
þrjóskra rauma strokið.

*) Mynd af Magnúsi.

Engri gungu er ásmegin
anna-þunga megin.
Hvassyrð tunga, hjörinn þinn,
hjó þér ungum veginn.

Hörð er gjóla' um hrakfalls-barð
hröktum óláns lýði.
Ei þann kól né úti 'ann varð,
ef í skjól þitt flýði.

Þinn er andi' að tápi' og trygð
tröll í vanda-flækjum,
þó að fjandinn, flónska og lygð
fylli land með klækjum.

Nú eru gengin galsa-spor,
geymast engu minni. —
Skemti lengi ljósríkt vor
lífi og drenglund þinni,



# Þokan.



Hún þegjandi þrengir sér víða,
og þokan er margvísleg:
Hún liggur í höfum og hugum,
og hvervetna leiðinleg.

Með fúann í fangi sínu
hún fellur um metnaðs-sjúkt geð,
og hreykir upp hundaþúfum,
og hækkar in smæstu peð.

Til huldra heima 'ún rýkur
frá heimspeki' og vanþekking,
og grúfir á vegum og vöðum
með villum og sjónhverfing.

Hún þurkar út ljósið og liti,
sem lífsgleði morgnanna naut.

Á sannleikans leitanda leiðir
hún legst sem á smalamanns braut.

Og gufandi grámóðu-augu
þá glápa sem suddafult kvöld.
Hún límist um hendi og heilsan,
svo hráslagaleg og köld.



## Staka.



Falsi móti fjallþung spyrning
fylgir orðum þessa manns.
Náttúrunnar frumleiks-fyrning
fatnaður er kvæða hans.



## Rismál.



Það brast svo hátt, að heyrðist milli landa,
og hærra en bogi Þambaskelfis gnast við Héðinsey,
er sinn hinn forna fjötur rauf,
og feikna-múrinn sundur klauf
þín frændþjóð minnug, svo að norðrið sínum rétti
gleymi ei.

Og þjóð mín, dóttir þjóðernis, sem leggur
síns þroska og manndóms ljóð og sögur upp að
við Noregs frelsis ljós og lög, [brjósti þér,
við leystrar þjóðar hjartaslög,
nú sér hún hverju hún fær orkað, því hún treysti
sjálfri sér.

Svo stíg þú fram, ef meira viltu mannast,
og mola' af borðum drottna þinna lítilsvirðir þú,
ef á þinni arinhlóð
enn þá sérðu nokkra glóð,
og kýst að þitt sé alt sem áttu, alfrjálst land og
óskift bú.

Ei rauðan fána, en friðar-merki berðu,
og fyrir brjósti æru- og þinnar sannfæringar- mál.
Og svo það sé nú gilt,
þá sýndu hvað þú vilt,
og guð þíns frelsis, guð hins rétta bendi þinni
þjóðlífs sál.

Og mæltu hátt, svo hafs um rastir taki,
og heimur sjái, hvað í þínu máli býr og felst.
Hann veit það reyndar nokkuð nú,
en næsta sinn er vaknar þú,
þá stattu frjáls sem fjöllin lands þíns — alfrjáls,
konglaus allra helst.





# Til unglings.



Jú, best er þér, að vilja það eitt verða,
sem við þitt hæfi er og megnar þú,
og með árum heimsku' og hatur skerða,
og hafa á því góða meiri trú.

Og horfðu upp til als ins göfga' og háa,
en ekki nið'r í mannfélagsins gróm.
Og láttu sól og himin-heiðið bláa
þinn huga fóstra, eins og vorið blóm.



# Íslands dóttir.



Þú íslenska kona, þú ættlands þíns rós,
þú augnbláa, fagurhærða dísin,
þú fædd ert við heiðar og fjarðarins ós,
og fóstruð út við kuldann, snjóinn, ísinn.

En samt náði fegurðin falslaus til þín,
og fjallanna tign þér setti' á enni,
og vordaga-röðull gaf rósblöðin sín,
er roða' á vangann tókstu við af henni.

Þú myrkri og kuldanum vonirnar ver
með vaxandi neista' af andans báli.
Og æskunnar brosið er endurgjald þér
og orðið fyrsta í hjartans tungumáli.

Er byrðarnar þyngjast á þraut-færri leið,
og þungleikans drungi' er eins og nóttin,

þá átt þú það ljósmagn og himin-svið heið,
sem hjarta' og armi veitir nýjan þróttinn.

Og þú sem ert lífs-stjörnum heið-hvelfing há
og heimilis-sólar-ljóssins gjafi,
þíns ástríkis blys lýsir boðana þá,
sem bera' oss fram á tilverunnar hafi.



## Afturför.



Mælskan hans var þarflegt þing,
og þjónn hans eini trúi;
en nú er hún uppboðs-auglýsing
á andlegu þrotabúi.



# Jón Sigurðsson.

15. Febrúar 1911.



Hann var eins og vormögnin högu,
sem vaka'-yfir gróandans blæ.
En utan um sjálfra' okkar sögu
lá sveigur úr klaka og snæ.
En beint gegnum ískuldans eyður
með ylinn hann til okkar brautst,
svo ítur og yfirlits-heiður,
að eldmóði' í þjóðina laust.

Í dyngju úr sögnum og sögum
hún sofin í skammdegi lá.
Hann hneigði' ana' að hjarta síns slögum,
hún hrökk upp og vaknaði þá.—
Sú hugsun, sem hratt af sér möru,
varð himinlyft stórvon og þrá,
og sveit milli fjalla og fjöru
sitt framtíðar ljósheiði sá.

Vér settumst að víni og vistum,
og veislu-glaum bar yfir höf,
og flatir vér kongs-sporin kystum,
—vér kölluðum frelsið hans gjöf!
Þá hitnaði kulnaður kraftur
og kristilegt bróðernið þar,
að fá svona ögn barna aftur
af öllu, sem fyr stolið var!

Og dáð var sú miskun og mildi
—frá minnum-gall fagnaðaróp—
og veldið, er skaut fyrir skildi
til skýlis þeim fámenna hóp.
En þeim, sem að þar átti heima,
og þreytuna fyrir oss bar,
oss sýndist það sjálfsagt að gleyma,
—hann sat utan dyranna þar!

Nú langar oss lofkrans að sveigja,
og leitum að gröfinni' hans þá.—
Þú fyrst þarft að falla og deyja,
en fær þú oss sæmdina hjá!.
Svo liggur við berara, beinna,
og ber okkar hugsana lag,
að sjá svo margt öldinni seinna,
er sjáum vér als ekki' í dag.

# Kvenréttindakonan.



Hvert finst þér ei breyting að framtíðar-hátt?
Að fortíðar-leiknum þú hlóst svo dátt!
Er brúðan þín málaða brotin í smátt—
og borgin úr spilunum hrunin?
Er dómurinn yfir þær duninn?

Er Maí og Júní með ársólar-yl
í Eden þinni ei lengur til?
Er dýrðin þín öll orðin drauma-spil
og deyjandi glampar á ósum?
Er fölnaður roðinn á rósum?

Og hefirðu bikar hvers blóms þar tæmt?
Er bragðvont hunangið nú og slæmt?
Er lystin horfin? Og logar nú dræmt—
og lítil olía á kveyknum,
svo remma er í kverkum af reyknum?

En þú verður aldrei að eilífu frjáls
með eldgosum skaps þíns og hita þíns máls,
og ekki þó kven-ham þinn berir til báls,
ef brennir ei gæfunnar fjanda:
Sóttkveykju-efnið í anda!

Þín virkileg menning á langt til lands,
þótt logi upp af gullfúlgu sannleikans,
því depra er á augum og innræti manns,
og all-margt í þoku og vafa.
Menn greinir á, hvar skuli grafa —

Hvar grafa skuli eftir gullinu því,
sem geymt er því djúpsokkna jarðlagi í,
þeim málmi, sem aldrei ná þjófar né þý,
en þúsundir áranna finna —
á hafsbotni hugsana sinna.



# Sumarkvöld við vatnið.

Sem draumsmíðis heimur, sem hulduleg borg
nú hvílist þú, stórvatn, með götur og torg
frá skýjum og himni, sjálft stálgrátt og stilt,
í stafandi logninu rólegt og milt,
með kvöldroða-brydding í blámóðu fjær,
en bakkann og sandinn og smáþorpið nær.
Í hillingum eyjarnar tyllast á tá,
og tangar og víkurnar lognskygndar gljá.

Eg sit hér og horfi' í þitt holspegla-glér,
sem hjáliðins atburðar myndina ber
úr hreyfingarleysinu' í huga minn inn
með hjaðnandi geislum um ársalinn þinn.
Sem brú ert þú spent milli helju og heims
til hljóðlausu strandanna ómælis-geims,
sem tengingar-þráður þeim táldregna hug,
við tómið, er grípur hann vegleysu-flug.

Þú, kyrðsvæfða afl, með þann ástvinar-hátt,
að alt er við hendina það sem þú átt:
Þitt dýpi, þinn sandbotn, þín svalbaðsins þró
og svefninn á eftir og hvíldin og ró!
Þú slöktir þann eld, sem við iljarnar brann,
frá ókleyfa bálinu, er daglengis rann.
Og einangraðs sálarlífs síðustu þrá
þú svæfðir við djúp það, er horfi' eg nú á.

Þú sendir þeim aftur í sólbirtu dags
—þú sýndir þar miðlun til jafnaðar-hags—
með sannvissa Grunsemd og Ágiskan eins
hið orðlausa skilmæli' og þökk ei til neins!
En bak við það hjátrúin, heimskan og slys
að hálfráðnum gátum sér leika á mis.—
Þú mæðunni' og sorginni marg-þýður inn,
og mjúkur sem barnsvagga' er faðmurinn þinn.

Þú klæðist í blæleysis blettóttan hjúp,
er brennandi kvöldskýin sveipa þitt djúp,
sem berir þú yfir þér blóðstokkið lín,
og breiðir það út yfir lygnuna þín,
til minnis um sigraða sjálfsvörn og dug
og samræmi truflað og vænglama hug,
og skjálfhendra kraftanna skammæu not
og skildaga-kveðjur og samveru-brot!

Úr skuggunum umgerð er unnin um þig,
—frá umliðnum dögum er hin fyrir mig.
Við bakkana húmkögur breiddur er þinn
á blundandi víkur með skóginum inn.
Og stormur er lagður í langferð á burt,
og lognið og kvöldið fá ei til hans spurt.
Og lágt flýgur nágagl og náttuglan hrín,
því nóttin er komin í heimsókn til þín.

---

Nú hverfur alt skrautið, sem himininn gaf
og hásumars kvöldið, þér, innanlands-haf.
Og undarleg, þreytandi, þunglyndisleg
hjá þér finst mér nóttin og óyndisleg.
Að óljúfar minningar sé í því sök,
í sortanum nætur eg leiði mín rök,
og harmþáttur lífsins sé ofinn hér inn
í eyðilegleikann og náttfriðinn þinn.



# Vorsins dís.



Þitt kyssir hár, með knöppum rósa,
á hvelfda mjöðm í sunnanblæ.
Og þú ert dísin daga ljósra,
úr dagsins hvíta risin sæ.
Hinn kveykta hita kinnar finna.
sem klæði nótt og dögg þig fól,
og nú um bungur brjósta þinna
sig brenna dropar móti sól.

Þeir ganga' á bál á barmi þínum
við blárra æða kviku-slög,
þeir falla' um þig í loga-línum
um lima þinna mjúku drög.
Og morguns-árið lauf-kul leiðir
frá linda-skuggum þér um brár.
En aftan-rósemd röðuls breiðir
sinn roða um þitt mikla hár.

Og anda þinn og yl frá munni
eg anda mér á kinnum finn.
Þín lilja og rós frá lífsins brunni
hér litar-blæinn draga sinn.
Hann leitar eftir leiðum nýjum,
og leggur þér um háls og arm,
er vestrið raðar roða-skýjum
sem rósa-knippi á himins barm.

Þín list er háleit, heilagt kallið,
eg hugum-fanginn til þín geng.
Og öldusvif og fossins fallið
á frelsis-heim í þínum streng.
Þitt bragar-lag á annar enginn,
þín edda er haf með strauma-klið.
Þú kant á flest að festa strenginn
—á fuglsins kvak og lindar nið.

Í þína hljóðu huldu-sali
eg hraða mér hin blíðu kveld.
Eg finn þú kemur, tek þig tali,
er tendrar bláa-stjarnan eld.
Eg líf og frelsi finn á sandi
og fegurð þar þú setur fót.
Eg dvel á þínu dýrðar-landi
við dags og sólar vegamót.

# Ísland vestan hafs.



Hún upplitast sumra í minni súðmynd,
sem með oss vér heiman að bárum,
og verður svo hugstæð sem hégilja blind
og hneyksli með komandi árum,
og verktöf þeim manni, er minnist síns lands.
En missi hann útlendings sniðið,
er ánægju' og farsældar hámarkið hans,
þar hestinum feitasta' er riðið.

Og enskurinn segir: "Þið sjáið vor spor
og sólskinið kring um þau glaðna.
Við byggingar-skrautið og blómlöndin vor
öll bláfjöllin íslensku hjaðna.
Og sólskríkja' og lóan er létt á vor met,
er leggjum á vogina nautin.
—Og hvað er það yndi, sem æskunni hét,
mót akursins, fjallshlíðar-lautin!"

Þeir ætla sér vegsemd og virðing að fá
og völd hinir metorða-sjúku,
og við getum orðið hin stak-tíndu strá
und stéljum í hreiðrunum mjúku.
Hvert mun það ei ásjáleg örlaga-rún,
og ástúðlegt til þess að hyggja,
að kúra þar niðri á kafi í dún,
og kannske und fúleggjum liggja!



En við þessir einrænu útleiða-menn,
þá óttuljós vaka' yfir straumi,
við sitjum þar hljóðir og hrifnir enn
í heima-lands Jónsvöku-draumi.
Við finnum að heimilið okkar þar er
með æskunnar lyng-gróin sporin.
Og minningin heim þangað hugina ber,
sem hafrænan þrestina' á vorin.

Vér leggjum í ylblæinn austur um ver
vor orðlausu kvæðin og ræður,
er sólhöndum táhreinum sægolan fer
um systurnar okkar og bræður.—
Vér eigum í brjóstrunum uppsprettu-lind
og árskin á snæfjalla-gárum.

Hún oss hverfur aldrei úr minni sú mynd,
sem með oss vér heiman að bárum.



# Maí-kuldi.



Frá suðri þú komst og frá sólu,
en svo vékst þú annan á stig.
Þú, svalanna morðinginn, Maí,
mér er nú illa við þig!



# Ferðaminni.

Til séra Rögnvaldar Péturssonar og konu hans,
við heimför þeirra til Íslands 15. Maí 1912.



Æfikjör og ættar-band
ýmsa líka geta.
Mörgum sýnist sæluland
sitt í fjarlægð vera.
Vonir þó að velji sér
vegi óskum hæfa,
þar að lenda ekki er
allra manna gæfa.

Sálar ljósbrún instu á
inni' í geislum dreyma
verur, þær, sem verða þrá
vængjuð út um heima.
Blánar fyrir fremstu strönd
—fyrir vona-heimi,

þar sem andinn á sér lönd
úti' í ljósi' og geimi.

Þá eru hugum víða væð
vötn til fjarra landa,
þegar yfir hlíð og hæð
helgar sýnir standa.
Þar er eins og æsku-lands
yndi, í minning dregið,
þegar yfir anda manns
eldi hefir slegið.

❖ ❖

Gestkvæmt þætti lýði lands,
liti hann þann grúa,
væri hérna vilji manns
vængir til að fljúga.
En svo nokkuð autt og tæmt
—efni nýtt til saka,
þegar öllum aftur-kvæmt
yrði þeim til baka.

Þar sem hafið hringar sinn
hlekk í vatna-keðju,
findu, vinur, fjörðinn minn,

færðu honum kveðju.
Þar var og þitt bernsku-ból,
brosið fyrsta' í tárum, —
okkar sté þar æfi-sól
upp úr tímans bárum.

Þar sem o'ná bergið blátt
barnsins tár nam hníga,
nú má heyra hjartaslátt
heilags friðar stíga. — —
Yfir höf og ókunn lönd
ykkur gæfan leiði.
Verndar-dísa verndar-hönd
vegi ykkar greiði.



# Í ljósaskiftum.



Þá sólsetrið opnast sem eilífleikans hlið,
berst ástar-minning gljúp
í draumsælli fegurð um andans eigin svið
og öll hans leyndu djúp.

Í lunderni mannanna, lífsins von og þrá,
er leiða-mót og skil.
Að brosum og tárdropum huldir heimar ná
með hjartans sólar-yl.

Að upphimins blásæ, á stjörnu-logans leið,
snýr lúi þreytu-dags,
og reikandi hugir um rauna-djúpin breið,
að roða sólarlags.



# Okkar skyldi bú og bær.



Okkar skyldi bú og bær
blái, gljái særinn,
ef þú værir aldan tær
en eg á hafi blærinn.

Létt með þér í löður-hjúp
liði eg yfir voga,
og með þig á ytstu djúp
okkur báðum voga.

Aldrei skyldi okkur meint,
eða dauðinn nærri,
þar sem alt er orðið hreint
öllum ströndum fjarri.



# Um nótt.



Oss óar við nóttunni' og óveðurs-skýjunum,
ill-lyndur rosi í nánd situr í 'onum:
Bakki í austrinu biksvartur hefur sig,
blossandi elding í sortanum grefur sig,
bogarnir hárauðu bresta og skifta sér,
bárurnar þys-meiri ýfast og lyfta sér
skips upp að hliðunum, álútar aka sér,
inn undir súðirnar hálshvítar mjaka sér.—
Um borð, nú í snatri og heimtum þar hýsingu,
hólf eða klefa með einhverri lýsingu.

Og þó að hann hvessi, vort þumbandi seinlæti
þvær kannske' úr andanum stórvatnsins hreinlæti,
og það, að hossast í hol öldu-skálunum,
hækkar nú ef til vill risið á sálunum,
fullgerir hálfnaða hugsun í kollunum,
hreyfingu myndar í stöðnuðu pollunum,

ellegar kastar oss aftur að fletunum,
er vér ei höldum oss lengur í setunum,
þegar að bárurnar spyrna upp spennunum,
spyrjandi: Getst þér ei, karl minn, að flennunum?

Mér býður við svölum og súlnanna portinu,
selt get eg upp yfir kaupstaðar gortinu,
dekrinu, smjaðrinu, hampandi húfunum,
hneigingum, beygingum, stórskulda-búunum,
verslunar-lyginni, rogginu, rambinu,
rótseigri fégirni, uppskafnings drambinu,
lánsviknum réttum í háreistu höllunum,
hringlinu, glamrinu' í máltíða-bjöllunum,
hálærðum flónum á hugsjóna-grynningu,
hjartanu, sálinni' í vatnsblárri þynningu!

Flökulleik engan eg óttast í rugginu —
sá ónoti þroskast í mannfélags grugginu. —
Himininn sýnir með heiðríkju-blettunum,
að hann er nú fráhverfur stórviðris-glettunum.
Óveðrið geystist hjá grunaða veginum;
glóandi' er tunglskinið nú yfir leginum:
Tindrandi geimur, umhverfis iðandi
örlítið bárufall, hóglega niðandi.
Glitrandi sveipar í sográk frá gaflinum
sveiflast sem neistar, er kastast frá aflinum.

Vatns-flötin rúmgóða réttir úr öngunum,
rólega, mjúklega fellur að töngunum,
gulbleik af tunglsljósi, gúlpar á dreifingu
af golunnar syfjaðrar miðnætur-hreyfingu.
Smábárur, hálfreiðar andvökuefninu,
álpast í riðlum á ská út frá stefninu.



Svo hljóðnar hver og ein djúpsins dís,
og dettur í blundinn væra.
En varrsíminn ólgar og glampandi gýs
í geislunum tunglsins skæra.

Og ljósið blikar um bjartan geim,
svo birtir í sál mér inni.
Og verur frá eilífðar ósýnis-heim
nú anda' að mér nærveru sinni.



# Huldur.



Nú hermir það hver dagur eftir öðrum,
sá elsti þeirra' af sól það hefir lært,
að hátta snemma undir élja-jöðrum
á jólaföstu, og sofa lengi' og vært.
Og stormur hvín í blásnum fanna-fjöðrum,
sem fjúka lausar út um svellið glært
úr kólgu-væng, og hlaðast yfir hólinn.
Hver hulda gleðst er leiðir í klettinn jólin.

Það gleður þær, að augu ei þær sjá,
og illir hugir ná til þeirra eigi,
og blóð það*, sem nú fellur fannir á,
ei flýtur hörmung inn á þeirra vegi.
En geislar stafa friðar-heimi frá
á fagra landið þeirra í kyrrum legi—
á hugar-landið hringað djúpi strauma,
og huldu-landið mánaskins og drauma.

*) Evrópu-stríðið, sem nú stendur yfir.

Við munum kvöldin. Fjöllin föl af mjöllu
í fagurblámann risu, traust og há,
og máninn skein á heiða-ennin höllu
og hraun og stapa, hjalla, fell og gjá.
En yfir dal og undirlendis-völlu
barst öræfanna söngur huldum frá.
Við heyrðum 'ann í stunu' og strásins hjúfri
og stökki fossins niðri' í kletta-gljúfri.

Og þessar huldur eru ljúfar, léttar,
þær líða eins og blærinn til og frá,
og spenna strengi' á hörpur handa-nettar,
er huldu-augu' und stjörnu-blysum gljá,
og inni af ljósum loga svartir klettar,
því ljóð í gegn um björgin farveg á. —
Við munum öll við heyrðum hljóminn þýða
frá huldum vorum yfir dali líða.

Og þá um skóga vorsins andar andi,
hver yndis-vera kýs sér fegurst svið.
Og er eg heyri hrannir falla' að sandi,
eg huldu-ljóðið óðar kannast við,
og veit eg aftur er á þeirra landi,
og enn að nýju geng við þeirra hlið
um grænan lund og horfi í álfa-hólinn,
sem hefir opnað bjarta Júní-sólin.

# Fimmtíu og átta.



Dags þó hvörfin sjái' eg senn,
samt mér þykir gaman:
Karl og drengur í mér enn
eiga leiki saman.



# Þorsteinn Erlingsson.



Dóminn horfði ekki í
eða venju-brotið,
en færði eld að öllu því,
sem ónýtt var og rotið.



# Magnús Brynjólfsson,

## LÖGMAÐUR.

Svo skiftist vegur: Þú fórst þína braut
til þagnar-heims, í gröf að runna baki.
Nú drúpir bygð þín, leiti hvert og laut—
það liggur stuna' í blæsins andartaki
um land; er söngur áður yfir flaut
í orðum glöðum, hlátra vængja-blaki.
En það er henni, er, söknuð særðust grætur,
þó sorgar-deyfing, nokkrar harma-bætur—

Að sálar-eld þú áttir, þann sem brann
frá æsku, er kveykti' í dökkum bólstra-skörum
hvers dofinleiks, og orðs þíns elding fann
sitt eigið magn í króka-lausum svörum.
Við hittum aldrei hjarta-betri mann,
né hjálpar-stærri' í lífsins svaðilförum!
Já, hafðu kæra þökk fyrir þrek og snilli,
því þess og hennar ei var bil á milli!

Þín veiga-mikla veruleikans þrá
þér veginn gat með eigin kröftum brotið.
Þú tókst það alt, sem áttir þú að fá,
og að eins hinir sterku geta hlotið.
En þróttar-auki aflraun hver var þá,
og oft var hverrar sigurgleði notið,
því þá var líf og leikur þess í blóma,
sem létti flug við morgun-radda hljóma.

Þín stutta æfi var svo vöku-glöð,
með varmar nautnir, rjóðar lífsins fylgjur,
og áhrif þau, sem vöktu hugar-hröð
í hreyfing margri nýrra krafta bylgjur.
Og minning eftir minning koma í röð,
og moldar-kumlið þekja Júlí-sylgjur,
er geislar ljóss um lundinn til þín falla,
og leiða þangað góða hugi alla.

Það gleður mig, að lífið lét þig sjá,
hve ljúf er stundin á þess rósa-teigi. —
Nú líða svipir dauðra daga hjá,
og dreifa blysum út um farna vegi.
Þótt höfgi dauðans hvíli þér á brá,
í hinu glaða, frjálsa deyr þú eigi.
Svo þér eg heilsa, þó ei sé í ljóði,
er þig eg kveð, minn forni vinur góði!

## Eftirvænting.



Hádags anda eygló skín
yfir landið drauma:
Freyjan banda bíður mín
blíð fyrir handan strauma.



## Söknuður.



Gleðisnauð mig grípur stund
gegn um nauða-húmið,
harmur rauða heggur und —
eg horfi' á auða rúmið.



# A. C. Swinburne.

Eftir James Douglas.



Meistari tóns og ríms, hins fagra óðar óms,
og hugmyndanna báli brædda málms,
sem fyllir öll þín óteljandi mót,
er hengir þú í hljómum þrungið loft
sem ljósvaka-bjöllur, mönnum góða-gjöf.
Heill þér! Þú situr einn á þínum tignar-trón
í ósnortinni fegurð-eins og sólar-guð!
Þú einvaldur ríkir— enginn þér er jafn,
utan þeir í dauðans dökka heim
af þinni ætt, sem tíminn beina-ber
og örlög köld og kræklótt dauðans hönd
í myrkrið drógu, er enginn kanna kann,
en óðsins kongdóm eftir skildu þér.



# Eg hattinn ber - - -

Eftir Holger Drachmann.



Eg hattinn ber eins hátt og mér líst,
með hugdirfð kveð eg það sem mér líst,
og andríki eg á til.
Mín ljóð eru frjáls, þau á enginn annar.
Hvort er eg þá saklaus, sem líkindi' er til?
Á að knésetja mig þá? Hver býður, hver bannar?
Já, blessaðir rausi þeir alt sem þeim líst!
Eg verð þó eg sjálfur og enginn annar.

Eg þarfnast ekki lánsins.—Eg á í horni hauk,
og hygg þar sé ei mikill reiknings-hallinn.
En verði mér að smakka þeirra vana-soðna mauk
með velgju hræki eg öllu því í dallinn.
Eg rausnar-gjafar náttúrunnar nýt,
þó nokkuð hörð 'ún kröfu að sumu leiði.
Hin vægu kjör með vilja eg af mér brýt,
eg vil þau ei. Hjá púkur-lánum sneiði!

Og skuldi eg engum, svo hefi eg hatt minn
á hátt þann, er mér sjálfum líst
og eg hefi efni til,
og þrýsti' honum ekki o'ní augu mér,
en út um landið og sævar hyl
syng hátt, svo minn óður að hlustunum brýst.
Þótt hrópi upp dóminn hver kollhúfu-pattinn,
eg kýs ekki að vera neinn annar en eg er.



# Gravitation.



Við trauðlega því trúa mundum,
ef teldist það ei satt að vera,
hve okkar fé vill festast stundum
við fingurnar hins opinbera.



# Stríðsvísur.

1914—1915.



## DRÁPSVÖLDIN.

Rifnað er rjáfur drafnar,
rofið er loft og klofið,
falla vígtár um völlu,
vogar og borgir loga.
Eldur og stál um aldir
eyddi ei svo né deyddi.
Fagna því manndráps-magni
morðdjöflar — lausir orðnir.



## KEISARA-KVEF.

Ei hafa 'ans Howitzers kvef
þótt hátign 'ans brjóstþyngsli mæddi,

blautri í skotgröf er skreið
með skipanir, eggjun og bæn.
En hungrið, vökur og vos,
valdinu bölvaði' í hljóði. —
Hlumdu við hlunkar og skot,
heiftin á jaxlana beit.

❖ ❖

## SVARIÐ.

Fréttu um sigur. Fámáll var
faðir allra lýða.
Annar gegndi þá, svo þar
þurfti' ei lengi' að bíða.

Hvæstu byssur barka-digrar
báli sem úr vítis-þró.
"Fyrst og síðast-fjöldinn sigrar"
fjandinn æpti' og kalt við hló!

❖ ❖

## BÆNIN.

Inn við harkið hildar-suðs,
högg um virkis járna-skrápa,
þeir krjúpa og biðja, í bæn til guðs,
bara um meiri kraft til—drápa!

## BLAÐAFREGNIR.

Breiða hrós
hroka yfir.
Þeirra ljós
það eitt lifir.
Lamast síst
lymsku brellan,
sífelt snýst
sama rellan.



## KYRKJUKENNINGIN.

Veröld er af syndum sýrð:
Svo það hana veki,
stríðið sýnir drottins dýrð,
dásemd hans og speki!



## BELGÍA.

Flakir í sárum
fram eftir árum
blóðgum á bárum

in þrautseiga þjóð,
því að hún stóð
við loforð og heiti,
er hinir í bleyti
höfuðin lögðu,
hlustuðu, þögðu,
er drápsvéla um hana dundi flóð.

Vígin þá hrundu,
hlakkaði í grundu,
hló við í lundu,
er borgin brann
og blóðið rann,
hefndarþráin,
hugarspáin:
Að Antwerp unnin,
Antwerp brunnin,
þeim gjaldi síðar, er verkið vann!



## TUTTUGASTA ÖLDIN.

Fram með ránum rifja-köld
ryðst að vopnaþingum
þessi fjórtán ára öld,
ötuð svívirðingum.

Æfir hvert sitt bana-bragð,
brynjuð vítis-móði.
Þetta valda-fíknar flagð
flýtur í manna-blóði.

Togar lönd í heljar-hyr —
hækkar smán og skaðinn.
Svo var engin öldin fyr
öllum glæpum hlaðin.

Öll þó trosni umbúðin,
eigi skal það leynast:
Jarðakaup og krambúðin
kosta-gripir reynast.

Blóðið þar skal þerra hinst
þrotin eftir verkin,
hlýða rödd, sem umlar inst:
"Út með landamerkin!"



## ENDURGJALDIÐ.

Þú herrunum verður handgenginn,
ef horfirðu ekki í skildinginn.

Og leggirðu í hvern þann líknar-sjóð,
sem lýgin sýgur um merg og blóð,
þá kemur smjaðrið og krýpur þér,
og kyrkjan um þína virðing sér.



## ENGLARNIR VIÐ MONS.

Fyr á vorri frægu jörð
*fjandinn hljóp í svína-hjörð.*
Nú taka aftur upp á því
englar, að fara hrossin í.
Gægist upp í annað sinn
æva-gamla tilraunin,
til að villa viti sjón —
vekja upp hin dauðu flón.



# Til nýjárssólarinnar.



Þú milda nýjárs-morgunsól!
þú mesta ársins hjálp og skjól,
þú veitst um alt, sem vantar yl,
þú vekur alt, sem finnur til.

Þú sendir glóbjart geisla-skin
á gröf, sem hylur látinn vin,
og yfir klakans kalda háls
þú kærleiks-arma leggur frjáls.

Og hresstu og vermdu hvern þann rann,
sem hverri lífsins birtu ann.
Og legðu varma lófann þinn
á litla skýlið — kofann minn.



# Ljóðabréf

til séra Rögnv. Péturssonar.



Þar sem rís frá rökkvum grunn
rok-hvít hrönn á söndum,
skemtir þér nú Uð'r og Unn
austur í Yankans löndum.

Þar sem hugur haffús þinn
horfir út úr skugga,
fornkunningi mætur minn,
mar er þér að rugga.

Leitst þér ekki lagið hans
lund til flugsins brýna,
þegar straumur strax í dans
stökk við ferju þína?

Yngdi fjör þitt ægis sýn
úti' á marar-gandi.
Aftur þyngjast orðin þín,
er þú komst að landi.

Varð um haf á hranna-gang
hermt við þér í leynum?
Sástu inn í fjalla-fang
flæðis út með reinum?

Sástu drekann lymsku' og lygð
liggja fyrir sandi?
Sástu fólksins dáð og dygð
dauða' í föðurlandi?

Lastu örlög aumingjans
út úr jökla-bringum,
meðan gull og gróður lands
glóði þig í kringum?

❖

Hvert sem reikar hugur minn,
hvað sem snýst til baga,
kunnings-skapinn þýða þinn
þakka' eg alla daga.

Sólskins-blettur ætíð er,
um þó élin svífi,
þar sem hugar-blærinn ber
birtu, af andans lífi.

Leið til ylsins er þeim skemst,
— ef hann varma spyr um —
manni þeim, sem mannúð fremst
mætir strax í dyrum.

Enginn dökkvi drúnga-hyls
dylur algert stíginn:
Undan-fari brims og byls
brennir göt á skýin.

Svo, þó veðrið gráni í geim,
getur, úr bylnum sloppinn,
stormsins fugl um hreggsins heim
hitt á siglu-toppinn.

Hefðar-sætið hans er mjótt
hafsins, milli fanna,
hefir um fárra samleið sótt,
síst þó moldvarpanna.

Lokkast ei af landsins sið,
leiðist ei af bending,
hímir ei, að annars sið,
inn við þara-lending.

Leggur út í gust og gný
grám að kólgu-skörum,
vill sér forða' að falla í
froðu' og slý í vörum.

Eins er farið inn á vog
orða-froðu' og slýja,
eitthvert glampa leyftur-log
lýsir úr rofi skýja.



Hvar er það, sem drýgst er dreymt
drauma kynja-nátta?
Hvar er það, sem rökkrið reimt
ríkir innan gátta?

Þar sem lýgi og lymskan þrá
lof fyrir smánir hlýtur,
þar sem flest á tylli-tá
tvöfeldninni lýtur —

Þar sem flaðrið fingrar nett
flekkuð hvítu línin,
þar sem hungruð staða' og stétt
strýkur á hundum trýnin —

Þar sem fyllir montsins mærð
mannkostanna slakkann,
þar sem hræsnin, full af flærð,
flóir yfir bakkann!

Sjálfs-virðingin setst þar að
sinnar rausnar happi,
umbúðirnar yfir það
undnar lófa-klappi.

Skygt er bæði' á skreppu' og staf,
skartað flangurs-snudda,
dulkufl aldrei dreginn af
dusilmenni og tudda.

Yfirlætis ástúð frökk,
orða-þvælu tama,
hvolað vit og viðbjóðs-þökk
vandræðunum stama.

Meðan falsið fyrir sér
frægðar sinnar sporin,
veit það þý og þrælslund er
þýðum höndum borin.

Von er hugir helgi sér
hlut í minja-gripnum,
þegar svona auðþekt er
uppgerðin á svipnum!

Kring um lykja krá og höll,
koma að notum góðum,
möskvuð hagnaðs atvik öll
úlfa og refa slóðum.

Hér er alt sem aflið gaf
andans frægstu ljónum,
enginn tollur tekinn af
tönnum eða klónum.

Eðlis-göfgi glögt má sjá
gægjast fram með árum:
Skoltar þekkjast allir á
ættar veiði-hárum.



# Fyrir-skál

BJÖRNS HALLDÓRSSONAR frá ÚLFSSTÖÐUM.



Ei sæmir að eg fari' að syngja við þig
um sorgir, barlóm og vol,
en heldur í kvæði eg klingi við þig,
þú, karl minn, með drengskap og þol. —
Þó laufið í hregg-stormum hrynji,
og hlynurinn gránaður stynji,
er líf samt í limum og bol.

Og kært er þér alt, sem er karlmannlegt,
—þú kyntir þér forntíðar lag —
og alt, sem er sniðugt og snjallmannlegt,
það snertir þig þann dag í dag,
sem alt slíkt þig ungan snart forðum,
því andinn í fastheldnum skorðum
sig gleður við hreystinnar hag.

Og fróður í fornkvæða-stökum
þú finnur þar snillinnar gull,
og hraustur að hornflæða-vökum,
þó hár verði hvítt eins og ull, —
þú situr og sér fram í tímann,
þú sér hvernig fara mun glíman,
og tæmir þitt freyðandi full.

Vér óskum þér gengis, minn góðvinur,
og gleðinni seglfylli' af byr.
Þinn andi' — hann er lífseigur ljóðvinur;
og ljósið um sólkomu-dyr
það fleygir burt frostþoku-skuggum,
þú feykir burt súldinni' og muggum,
sem lá hérna kolsvört og kyr.

Það stormar frá þínum strengjunum,
sem stæltust við frostið og eld.
Þú telst enn með dugandi drengjunum,
þó dragist nú brátt yfir kveld.
Svo óskum vér als þér hins besta;
og aldrei lát hönd á þér festa,
né slíta' af þér húðfat og feld.



# Gamla húsið.

Gamaldags og öllum veðrum urið
enn þá stendur það á sínum grunni,
ellimörkin eins á hlið og gafli,
aldurs-rúnir sem á gömlum kinnum,
þakið gránað áratuga ísing,
undirstaðan skekt og niður-sigin.

Enn þá leggur geisla inn um glugga
glatt og hlýtt sem fyrir mörgum árum,
enn þá hafa hallir þessar nýju
hvorki dag né sólskin frá því tekið.
Blærinn andar enn þá vorsins kvæðum
inn um dyrnar beint frá suður-heiði.

Sé eg myndir löngu, löngu farnra
lífsins daga, bornar mér úr fjarska.

Sem í draumi' eg dauða vini sjái,
dánir vinir reika þar um slóðir.
Gamla trygðin, hjarta-hlýjan forna,
helga ró og friðinn um það breiðir.

Letrið enn á legsteinunum gömlu
les eg hér á margra vona gröfum.
Þreytu-sporin, bæði úti' og inni,
ei mér leynast, hvorki' í mold né fjölum.
En um dökka þykknið skorts og skugga
skína geislar margra ljúfra stunda.

Þá var líf og ylur í þeim böndum,
er á milli kunningjanna lágu,
glaðst af litlu, djúpið deyfðar brúað,
dauði og visnun komst ei að í ræðum,
syrgt og tregað, útrétt hjálpar-höndin,
hugur aftur sólskins-birta vona.

Hér var landið autt til vestur-áttar,
út að kvölda roða-slikju-tjöldum.
Logastígar lágrar aftan-sunnu
lágu út frá sólarlagsins dyrum,
þegar jörðu fegins-faðmi vafði
friðar-kyrð og unaðs-veðurblíða.

Nú er grundin fagra' að flagi orðin,
flett er burtu hennar grænu klæðum.
Gróðafíknar háu fórnar-hofin
híma' í kring sem uppi-döguð tröllin:
Grásteins andlit grett með skugga-fyllum
glápa köld og líflaus út í bláinn.

Nú er lautin lögð í aur og horfin,
litli bollinn okkar sólskins-fulli;
—svona stendur menningin in mikla
moldug yfir þúsund jarðarförum—,
þar við sátum, sólin þegar rauða
seig í báli nið'r í sléttu-hafið.

Minning geymd og hrörnun halda tengdum
höndum yfir þessum gömlu slóðum.
Draumur dreymdur, hugsun löngu hugsuð
hvarflar enn um þessar fornu stöðvar.
Vestanskinið verpur enn að gluggum
vinar-kveðjum dags og sólarlagsins.

Mér um hjartað hlýnar, þegar geng eg
hjá því hinu gamal-kunna húsi,
finst þó eins og eigi hvergi heima,
altaf sé að bíða eftir fari,
hafi kvatt og orðið þarna eftir
af þeim, sem að farnir eru og horfnir!

# Einbúinn.



Frá drápægri styrjöld, sem þrengdi hans þjóð
und þræls-okið: konungsvald, eggjar og blóð,
hann gróf eftir minningum mörgum.
En þar var ei gull eða glæsileg þing,
þær geymdust sem ryðið á byssunnar sting
og mosinn á hregg-næddum hörgum.

Og hljótt var nú orðið um einsetumann,
og ellinnar þungi var lagstur á hann,
og leiði frá lífsdrauma-táli.
En eldsglampinn kleif upp í kofavegg hans
á kvöldin, og sló þar í fjörugan dans,
og stökk og rann eftir stáli.

Og þegar að roðanum rendi yfir stál,
þvarr rökkrið og kuldinn í öldungsins sál,

svo hitnaði' og hrestist hans andi.
Og hugsjónin dró nær sér aðra öld
í opinberun margt þögult kvöld
í hrjáðu og herteknu landi.

Og sonanna vopnin, þau vöktu' honum móð,
og vermdu hans sjötíu og fimm ára blóð,
þótt hygði' ei á hefndir í elli.
Þeir sofa í faðmi síns föðurlands
und felli, þar stóð eitt sinn búgarður hans
með ökrum og iðgrænum velli.

Í sikkuðum brúnum lá beiskja og þor,
á bliknuðum vöngunum mannrauna-spor,
í gangstígnum allmargra ára.
Og nú voru signar fram herðar hans,
og höndin var óstyrk—ins gamla manns,
og hjartað bar hugraun sára.

---

Svo talaði karlinn og tendraði eld,
og tók sér á herðarnar bjarnar-feld—:
"Eg er kulsæll og gamaldags gripur.
Og skap mitt er einrátt. Við einveru-hlé
í ellinnar skammdegis-rökkri eg sé,
mitt eðli er sérstæður svipur.

Eg séð hefi falsarans flagara-klæk,
og friðar þess heyrði eg náttuglu-skræk,
sem stiklar á blóðugum strjúpum.
Eg séð hef um lýginnar litfögru tjöld,
að lífið er ofið úr þráðanna fjöld,
sem rekjast úr hálffúnum hjúpum.

Eg syrgi' ei svo mjög mína sonu þrjá.
En sárt er að mega' ekki hefndum ná,
né segja hið rétta og sanna.
Þeir dugðu með heiðri og drengskap í vörn,
þar dó hver, skotinn sem fjalla-örn.
—Slík réttindi' og málstaður manna!

Og nú er alt komið á ringul-reið,
og rænt hafa' og svívirt oss þýin leið.
Og búin sé bölvun því veldi,
sem girðir með ránum um kærleik og Krist
og kaupsýslu hagnaðar þaulæfðri list,
svo fjötur oss heldur héldi.

Og fylgi þeim hefndin fastlega' í spor,
sem fölnuðu, skulfu og höfðu ei þor
til annars, en bæ minn að brenna.
Þeir þúsundum lögðu að litlum her;

með lymsku-brögðum og slægð fór hver,
sem refar í felur er renna.

Eg fjölyrði ekki um þau angistar-tár
og afleiðing stríðsins,— er neyð og fár
sem flóðalda féll yfir landið.
Eg afsíðis dró mig í dal þenna inn,
þá deyddur og eyddur var bústofninn minn,—
eg þoli' illa þrælkunar-bandið.

Hver svívirðing, þýslund og þjóðar synd,
sem þrykt er á blóðuga styrjaldar-mynd,
mun þung verða' á konunga krónum!
En friðurinn sigrandi leggur til lands
með ljómann af degi í kjölfari hans,
og vor yfir veraldar-sjónum!"—



# Sólsetur.



Austrið slangri slyddu-blautt
slettir á vanga hóla.
Vestrið fangið fagur-rautt
fékk af gangi sólar.

Rauðbrúnt girðir rysjótt hvel
rökkurs stirða töfin.
Dagur syrgði sig í hel,
sól þá byrgðu höfin.

Upp í heiðríkt himna-djúp
horfir skeiða-bifir.
Nóttin breiðir bláan hjúp
beggja leiðin yfir.



# Haustnótt.



Haustnótt köld á vængjum hríðar-vinda
voða-rúnum grefur frera-spjöld.
Hrímgar nakta, hlífðar-lausa rinda
haustnótt köld.

Hátt þín rísa hríðarskýja tjöld,
hefir norðrið girt með kólgu-linda
hringinn kring um heljar-vetra völd.

Kalin lauf í kuldans straumi synda,
kremja vöðva lífsins hlekkja fjöld.
Húm þitt fult er hröngli beinagrinda,
haustnótt köld! —



# Skóla-bruggið.



Ekki hrapar hégóminn,
hneyksli og glapin skynsemin,
þar sem apa-einkennin
eiga' að skapa lærdóminn.

Kenslu-lap og lofsyrðin
lepur dapur hugurinn,
tálboð snapar trúgirnin,
tornæm gapir einfeldnin.



# Á siglingu.



Kvöldar um haf og heldur
hrönnin knerri í önnum.
Fjöll eru að rísa' og falla,
fleyið veltur á legi.
Glettingar-bára grettist,
gneyp yfir þiljur steypist;
gnýþung á stokkum gnestur,
gnollra seglin af hrolli.

Eimvélin dæsir, ymur
úfinn boðinn og skrúfan.
Viltur er söngur seltu:
sæhljóð í öllum ljóðum
vinda, og langt til landsins,
langar mig komast þangað.
Unn, þó að kyssa kunni,
kaldrifjuð breytist aldrei.



# Ljósbað.



Vetur er nú úr vona-bæ,
vor fyrir sálar-augum.
Nóttina af mér alla eg þvæ
úti í dagsins laugum.



# Staka.



Leggur ársól yl og hlíf
yfir breiður fanna,
eins og vonir eilíft líf
ímyndanir manna.



# Sjódropi.

(Kveðið þegar höf. var fært glas fult af sjó.)



Nú skoða eg hér, ægi-breiða haf,
einn agnar-part af þér, svo volduglegu,
hinn salta dropa djúpi þínu af,
sem draup mér hingað frá þér óravegu.

Og þessi dropi er dropi úr æðum þér,
sem dundi og svall í þínum ólgu-lindum,
er hann við strönd í brimi bylti sér,
og brautst þar fram í þínum ógna-myndum.

Hann lá í þinni þróttar-stóru taug,
í þínum barka' og afar-sterku lungum,
og hjá þér hann þitt bylgju-brjóstið saug,
og bar þitt nafn á allra storma tungum.

Og af því ég er alt af fjarri þér,
en á þó drauma bernsku-sálar minnar,
með glöðum huga hans til sný eg mér,
því hann er partur veldis-dýrðar þinnar.



## Grafskrift.

Úr norsku.



Hann kleif upp um firnindi' í fjallanna skjól,
við fossnið og stórveðra-gný,
Til rokkhljóðs á kvöldin, sem heyrðist úr hól,
og huldusöngs klettunum í.
Alt hljómtækt, sem fylgdi' eftir fótstigum hans
í fjarlægð við blámöttlað hjarn,
hann óf það með fiðlunni' í listir síns lands,
þetta lundglaða náttúru-barn.



# Fangar.



Þeir hvíla þungum, þykkum voðum faldir,
með þögn og myrkur fyrir höfðalag,
og bíða dómsins enn þá nokkrar aldir
með allri ró sem þennan dag í dag.

Þeir kvíða eigi ytstum myrkra geimi;
og ekkert truflar þeirra varðhalds-ró,
því engin flaug frá helvíti né heimi
í hvíldar-sælu fánga-hjörtun smó.

En sannarlega syndguðu þeir allir—
og syndararnir dæmast, kent er oss.
Þeir trúðu líka,— bygðu helgar hallir,
og helgra manna báru ok og kross.

Þeir lifðu eftir æfi-kvöðum brýnum,

við endimörkin gerðu reiknings-skil:
Í metaskál mót synda-þunga sínum
þeir síðast lögðu það, að voru til.



# Myndin.



Nú sé eg það andlit eigi hér,
sem áður á kvöldunum brosti við mér
í þessum gamla glugga.
Í sálu mér myndin þess sífelt þó er:
Eg sé hana jafnan hvert sem eg fer,
í skini jafnt og skugga.



# Ástagöngur.

1893.



Þegar gríma glóstirnd felur
grund og strauma marar-flóðs,
neistann fjörs og ástir elur
unaðs-leiðsla hals og fljóðs.
Enginn blær er enn þá vakinn,
ylvolgt hvílist hauðrið sveitt.
Brjóstin hefir nóttin nakin,—
nú er blóð í æðum heitt.
Húmið seiðir,
svarta breiðir
sólarlausa arma' í kring.
Sest er njóla
á stjörnu-stóla,
stefnir ást á munar-þing.
Hér á samleið hold og andi,
hálsar vefjast arma-bandi.

Þá um aftna' er Amor kátur,
æska' að gleðiboði fer.
Rennur út í rökkrið hlátur,
rósilm ber í skauti sér.
Þögul rödd með blóðsins boða
berst í gegnum hjartað fljótt.
Hár sitt yfir hörunds-roða
heitra kinna breiðir nótt.
Stundir líða
ljúfra tíða,
lýsir mánans skíma bleik.
Það fer að daga,
þrjóta saga,
þáttaskifti verða í leik.
Upp á makkann marar-strauma
morgunn leggur rauða tauma.



# Glólundur.

1916.



Flognar eru frjálsar stundir,
fellur þögn á sumars gröf.
Skemti-mót og fegins-fundir
flutt er burt um tíðar-höf.
Koss og galsans kviku unnir,
kast-blik augans, von og þrá,
eins og kveykir, alveg brunnir,
öllu dreift er til og frá.
Fylgsnin þegja,
þau ei segja
það, sem mörg ein nóttin sá.
Enginn snýr nú,
enginn flýr nú
einhvers skuggans náðir á.—
Laufin hanga gul á greinum,
gustar kalt í skógar-leynum.

Þessi lundur leiks og gleði,
leyni-hjals og nætur-friðs,
unun marga örugt léði
æsku-nautnum þar til liðs.
Jörðin mjúk og mild af angan,
munar-draumsins hæga sæng,
nóttin heit af hjartans langan
himins undir stjörnu-væng,
rétti arma
ástar-varma
eftir þeim, sem hlýddu á
huldu-lögin,
hjarta-slögin
hugar-gripsins strengjum frá.—
Hér var komið, kvaðst og farið,
kuldinn blés á hinsta skarið.



# Sorgin.



Við útfall dags og aðfall nætur
einmana situr hún og grætur
við farinn veg, hún veglaus sjálf,
af vorkunarleysinu nakin hálf,—
með aldanna ryk og regnfall ára
rennandi í lokkum síðra hára,
í hjúpi úr myrkri hugsananna,
úr hlekkjum og prísund þúsundanna,
og kveinstöfum deyjandi dýra' og manna.

Við útfall dags og aðfall nætur
einmana situr hún og grætur,
við valkesti, er iða og engjast af kvöl,
hjá upp-bornum líkum á sævar-möl.
Í eld þann hún skarar í skipbrots-flökum,
sem skjálfandi kveykti' hún á nætur-vökum.
Og ólga og niður af aljarðar straumum

sem illfylgjur berast að hennar draumum,
með dauða-haldið á húmsins taumum.

Hún er, þótt oss virðist hún útlits-bleik,
það afl, sem ber upp hvern harmsögu-leik,
það magn, sem varir um aldir og ár,
eins lengi og mönnunum falla tár.
Hún full er af efni í feiknstafa óð,
og fórnin hennar er tár og blóð.
Hún seiðir fram verur, sem voðinn og nætur
vernduðu og geymdu við lífsins rætur,
á meðan örmagna einhver grætur.



# Október.



Október! Fulltrúi frosta,
á fölnuðu, vindblásnu sviði,
með steypiregn, storma og rosta
og stunur og andköf í viði, —
nú faðmar þig nötrandi njóla,
og nóttin er fangsvöl og haustviðra-blaut.
Þinn legst yfir hlíðar og hóla
hráslaga-kuldinn og myrkur
geimurinn umhverfis, mold jafnt og mararins skaut.

Að glaum-auðgum sumarsins sölum
og söngríkum vogum og lundum
og gleðinni' og góðvina fundum
þú svífur frá svalviðris dölum.
Í loftinu þínu' eg mig lauga,
og logann frá sólunni' í blóði mér slekk.

Í skjólinu trjálima-tauga
sumarsins skilnaðar-skálir
glaður og ókvíðinn, barmfyltar, botns til eg drekk.

Frá regninu og lauffalli líður
svo laðandi, friðandi niður,
svo mjúkur og hvíslandi kliður
sem þráin, er bænheyrslu bíður.
En haustið mér hönd sína réttir—
í hönd mína leggur það næðandi kul.
Og úrig í andlit mér slettir
ísköldum dropunum nóttin—
svalbrjósta, koldimma haustnóttin, draumrík og dul.

Sjá, laufið til dauða síns dansar,
í drunganum náttkyljan syngur,
og regnvotir rósanna kransar,
sem snert hafa frostnætur-fingur,
þeir visnir á leiðinu liggja
þess lífs, sem að gladdi þig, víðlenda storð.
Á hvað er í heimi að byggja?
Hverfleikinn einsamall varir,
sterkur sem dauðinn og sorgin og örlaga-orð.

Og laufið til dauða síns dansar

í drungann, og náttkyljan syngur,
og regnvotir rósanna kransar
nú sortna við frostnætur-fingur.
En tónar frá titrandi strengjum,
sem tíminn og eilífðin stemmir og slær,
mér hljóma', og frá algrænum engjum
árgala vormorgun-kvæði
sólbjart og hlýtt eins og heiðríkju blíðasti blær.



# Nýjárs-ósk.



Nýjárið færi þér nýjar gjafir lífs,
nýjárs-sólin reki burt húmskugga kífs;
innan húsveggja þinna sé hamingju-ró,
í hjarta þínu mannelsku ríkidæmi nóg.



# Til þeirra meðseku.

(Eftir Henrik Ibsen.*)



Mín þjóð í norðri og dapra daga land,
með Dofrafjöll, sem kreppa' að ljóssins öldum,
og fararhöft um flæði, hraun og sand
og frelsis-tálmun styrkta' af þínum völdum,—
í þungu skapi þér eg flyt minn óð—
og þann minn-hinsta, spáir dapurt geðið,
því enginn hefir yfir dauðri þjóð
sem eitt af hennar skáldum grafljóð kveðið.

Og þú ert sýkt! Þú dregst með lík við lík.
Það leggur af þeim megnan daun og plágu,

*) Kvæði þetta fanst í handritasafni í Rómaborg, eftir lát Ibsens. Engin vissa var fáanleg þá fyrir því, að kvæðið væri ort af honum. En nokkrum mánuðum síðar birtist það í norskum blöðum, og þar talið sjálfsagt, að Ibsen væri höfundur þess. Þýð.

og eitrað loftið fyllir fjörð og vík,
og flytur sjúkdóm, jafnt þeim háu' og lágu.
Lát landsins fána hylja öll þín hræ.
Burt hugar-vingl, en rís nú, þjóðin unga,
og dauða' og rotnun söktu út í sæ,
þar sverðið gnast og orti norræn tunga.

Og ver þú eigi heimsk að Haralds dæmi,
en *hafðu skilning þinni nútíð á.*
Hins liðna dýrkun er þitt ósamræmi,
en alt hið liðna' er dautt og gleymast má,
því það, sem dautt er, lifnar aldrei aftur,
og alt, sem dautt er, hverfi' í duftið, því
að hlutverk þess hið eina innir kraftur
hins unga frjómagns nýjum gróðri í.

En þennan lífsleik, loginn, með það dauða
þú leikið hefir jafnt í fjölmörg ár!
Þín æskusynd er það og *þáttur nauða,*
og þaðan stafa mun þitt sjúkdóms-fár
*í framtíð* þinni. En þig öðrum fremur
sér ætlar hefnd, og tíföld slær hún þann,
sem þjóðin setja fremst í fylking vann,
og hundraðföld hún loks í koll þér kemur.

Vér dýrkað höfum kynslóð allra öfga,
og undur-skrauti hlaðið dauða tíð,
og minninganna hallir vopna-höfga
til hugarléttis veslum dverga-lýð!
Og fornri hreysti lof í ljóð-var-sett,—
oss láðist hitt, sem engan mun það gerði,
að spyrja' oss sjálfa, hvort það væri rétt,
sá handavana tæki þá við sverði.

Nú fellur kyrðin lognró yfir landið,
og loftsins mollur gufa' af fjalla-skör.
Það er sem slægs-ráð, seið og svikum blandið,
sé sett og grópað inn í þjóðlífs kjör.
Sem hnípinn fugl við sorta sólna-bauga
eg sé að drúpir þjóð við ráðin vönd,
En mergur þornar, magnið doðnar tauga,
í miðdags-húmi gránar fell og strönd.

En eldmóð skáldið anda vöktum sendir,
og ástigs skal þess merki borið fremst,
ef táp og vilji' að takmarkinu kemst,
þar tímans gáta' á ráðning sína bendir.
—Já, skáldið glæðir, leysir lýðsins þrá,
og lyftir hug og dug í hvatar-óði,
og brot og iðrun stillir strengjum á,
og stundar-nautn í mjúku gaman-ljóði.

En eg er hnugginn. Héðan burt eg sný
frá hindurvitnum þínum, dauða saga,
og tálar-draumum síðar-sælli daga,
og geng nú þaðan þoku-heiminn í.
Í greni-skóginn inn eg aleinn reika,
þótt óveðursins dynji skúrin römm,
í haustkvelds-myrkrið, sem ljær skýli skömm,
mér svefn sem öðrum særðum erviðleika.

Mitt ljóð er eins og hæð klædd lyngi, er hækkar
svo hægt en jafnt er dregur upp frá bæ,
uns hana bak við hvirfing jökla stækkar
með hvíta toppa og svalan fjalla-blæ.
Eg hefi lágt minn ljóðsöng þennan stilt —
en lági tónninn geymir djúpa hljóðið.
Og skiljist efnið, anda bragsins fylt,
svo undirspilið skilst í þessu ljóði.



# Lógn.



Sveipað gráum gufu-hjúp
grilli' eg út á vatnsins djúp,
breitt sem við mér blasi haf
bárulaust og rennislétt,
vindur engum veit þess af
vörðum logni nokkrum blett.
Skógfrjó ströndin, gul og græn,
grafkyr er, sem liggi' á bæn.

Áfram ber oss árar-tog
út úr kyrðar-svæfðum vog,
út í glóð og glampa-leik,
gjálpar-auðn og dauða-logn, —
skýleitt glóir, girt af reyk
gljárrar móðu hvít-grátt sogn.
Þreytir augað geisla-glit,
glömpum slær um vatnsins fit.

Loft og djúpið hönd í hönd
haldast á um gufu-bönd.
Hiti og þorsti herða að.
Hvergi nokkur minsti blær,
—seglin galtóm sýna það.
Sólarhita mollan fær
einkaleyfi' að bræla burt,
brenna alt, sem nógu' er þurt.

Hvílík undra-eining hér!
Enga hreyfing maður sér—
alt svo kyrt, og sýnist sátt
saman falla' í eina heild.
Engin löngun á þann mátt
eining sú að verði deild.
Aðgreiningar óljós mörk
er á strönd í hilling björk.

Þetta logn er falsi fult,
feigðarlega mósku-gult.
Bak við það hinn þungi gnýr,
þykkur bakki' og veðra-ský
hljóðleik vatns í hlátra snýr,
hvítar tennur glittir í.
Bylur við, af byrnum knúð,
boðahrönglið undir súð.

Fleyið okkar, hliðar-halt,
húmið gleypir vinda-kalt.
Yfir hvítnuð öldu-bók
elding roða-hjúpi slær.
Lengur segl ei liggja slök,
löðrið upp um keipinn þvær.
Okkar lending, langt að sótt,
liggur fjarri inn í nótt.



## Asna-stryk.



Það varð, sem áður alt hjá honum,
asna-stryk.
Örvhentur sáði hann ótal vonum,
uppskar svik.



# Úr ljóðum Heines.



Við sólu bárur blika
sem beri gullinn hjúp.
Mér sökkvið dauðum síðast
í sævar blákalt djúp.

Eg elskað hefi æginn:
Hans úða-svala hvel
míns hjarta sviðann sefar,
oss semur mæta-vel.



# Sex smákvæði.

Eftir Goethe.



## I.

## SMÁRAKKARNIR.

Við vitum af hundum við erum elt,
en áfram við höldum og rötum.
Það hvín við ýlfur og urr og gelt
á öllum vegum og götum.
Sjá fjósahvolpinn með ginið glent,
sem grimdin og mæðin þyngja,
hann glepsar, þar ekur vor unga ment,
í óminn, er bjöllurnar klingja.



## II.

## ÞETTA ER BEST.

Um Pardís tunglið birtu brá,
hvar blundaði Adam, Jehóva sá.

Þá lagði hann Evu hans við hlið,
og hana svæfði í nætur-frið.
Þar lágu þau bæði lima-fríð,
það ljómandi drottins völundar-smíð.
Og þá kvað 'ann hrærður: "Þetta' er best
af því, sem eg gjört hefi, fegurst og mest."

Og því er þeim sálum sæla mest,
er svikalaust unnast, heitast og best,
að vita, að hans er handaverk
sú hjartans löngun, blíð og sterk —
sú gleði, er berst frá auga til auga,
sem ástin og frelsið hreina lauga.
Nú hvílir þú, drottins hugsjón hæst,
við hjarta mitt, inn í faðm minn læst.



III.

SKEMTISVIÐIÐ.

Hvílík fegurð! Líkt og himinn heiður
brosir sviðið fjölstirnt lita ljóma.
Áður var hér ber og blásin moldin.
Svo stælir mannsins hugvit afli æðsta:
Klettar, vötn og laufi grónir lundar

eru hér, og dýrin, fuglar, fiskar.
Tvent gleymdist þó, að Eden þetta yrði:
Hjörtu sorglaus, helgi sunnudagsins.



## IV.

## SAMEINAÐ AFL.

Ef heildinni treystirðu, hugsa um þá,
heildina í því smæsta að sjá.

Lindin sýnir fyrst lífsþrótt sinn,
þá lögð er stífla í farveginn.



## V.

## HEILRÆÐI TIL KONUNGA.

Ef hagnýtast skulu ei hugsanir manns,
þá hlaðið þær soll-lífsins skartgripa fans.
En veljið þið lýðinn til lángæfra verka,
þá látið hann etja við mótspyrnu sterka.



## VI.

## GÖMUL SÖGN.

Hjarðguðinn eitt sinn hóf svo tal
við helgan mann í skógar-dal:
"Bið þú nú fyrir mér og mínum,
því miskunin gerir að orðum þínum.
Oss langar að öðlast eilíft líf,
og okkur vertu nú skjól og hlíf."

"Eg vel það finn í vitund minni,
að vandkvæði eru' á beiðni þinni,
því dýrðin heilögum ætluð er,
en ekki kiðfættum bjálfum sem þér."

Svo kvað inn helgi, en hinn við gall:
"Hvað er að klaufunum mínum, karl?
Þitt tal eg hygg að sé heimsku-raus—
til himins fór margur með asnahaus!"



HÚSFRÚ

## Björg Bjarnardóttir

BLÖNDAL.



Sem sólin hnigin í hafið kalt,
sem hlý-dögg stigin í loftið svalt,
sem dreifður hreimur með klökkum klið
um kyrðar-geiminn og nætur-frið.

Sem stjörnuhrapið um heiða nótt,
sem haustsins-tapið af sólar-þrótt,
sem hugsun fögur, sem hönd á vin,
sem hjartans dögun og sálar-skin —

Svo var þín æfi og aldurs-þrot.
— Á úfnum sævi við strauma-brot
þú lagðir bjarma á báru-föll
og blik og varma á munar-fjöll.

Það gréru rósir við góðleik þinn
í greindar-ljósum og brosi' á kinn,
og hvítar liljur bar hóglátt geð,
þó hregg og kyljur þann snertu béð.

Ei týnist minning, sem ástin ól,
og ei sú kynning, er lýsti sól.
Ei glatast tárið í gárum líns,
þótt gráni hárið 'ans föður þíns.

Þó lægi öldur og létti straum
und ljósa-földum í vorsins draum,
og stöðvist tárið, er streymdi' um kinn,
hið stóra sárið ber maður þinn.

Við hann þá skildir og heima-lönd,
og hann þér fylgdi að skilnaðs-strönd,
sér byrinn flýtti, er bar þitt fley,
þú blómvönd hnýttir úr — Gleym-mér-ei!



# Valgerður Björnsdóttir

## JÓHANNESSON.

Kveðið undir nafni dóttur hennar.



Langur var dagur,
ljós og skuggi
féll á farinn veg.
Tók við að enduðum
æfidegi
hvíld-gjöfult næði— nótt.

Æfinnar lúi
sér enga vissi
sælu meiri en svefn.
Hvílast, aflýjast,
hátta, sofna,
kraftar slitnir kusu.

Trúðir þú og treystir,
í trúnni eygðir
sólris handan hafs.
Því til daglanda
drottins horfði
auga anda þíns.

Hjálpfús varst þú
og hjúkrandi,
fátæk þó öll þín ár.
Varst af lipurð
og liðsemd rík,
hreinhjörtuð, haldinorð.

Eilífðar fjarlægð,
eilífðar nálægð,
beint frá hulins-heim,
bar þér bergmál
blíðrar ástraddar
ástvina þér að eyrum.

Bentu þeir og biðu
á blævum ströndum
yfir dauða-djúp —
þeir, sem þú unnir.

og unnu þér
hreint og hræsnislaust.

Viðkvæmur, klökkur
vakir hugur,
lítur farna leið.
Skugga og skýrof,
skúrir og ljósblik
telur gegn um tár.

Móðir mín, góðal
mætir þér og hlúir
geisli guðs friðar.
Bjart er þig kring um:
Blasir nú eilífðar
sól við þinni sál.



# Grafreits-vísur.



Hér þéttist bygðin dag frá degi,
og drjúg er lestaferð um vegi,—
hér hrukkar varla sléttan slétt.
Hér byggja lýðir lága sali,—
hvers land er mælt í feta-tali
um þennan gráa grundar-blett.

Þú, feigðar-auðnar umgirt svæði,
ert eyðilegt í heljar-næði,
með fúa' og rotnun-fulla jörð.
Hér hvílir sá, sem rænti, rúði,
en ræningjans á iðran trúði,
og þuldi Mammon þakkargjörð.

Hér dvelja herrar afls og auðsins,
og aumingjarnir þurfa-brauðsins,
sem jafnan áttu langt til lands.

Þeir rituðust hér á réttan lista
í ríki' hins mikla sósíalista,
og allir þegnar orðnir hans.

Og hér er ætíð háttatími—
því hér er dauðra náttatími,
hér sofa' um alla eilífð þeir.
Þó himingeimsins hvolfið rofni,
og höf og jarðar-löndin klofni,
þeir vakna aldrei, aldrei meir.

Þeim rennur aldrei röðull fagur,
þeim rís ei nokkurs tíma dagur,
sem lífgi þá með lífsins þrótt.
En efni' í sögu upprisunnar
er efnaleysing náttúrunnar,
sem hún í grafir hefir sótt.

Og þessir sjá ei sólir dansa,
þeir sjá ei ljóssins páska-kransa,
sem lýsa eiga lífsins brunn.
Við stóra safnið sannleiks-mynda,
á sýning naktra beinagrinda,
fer kuldaglótt um grafar-munn.



# Vestur-Íslendingar.



Vaskleiks ykkar veruleg
vitnin eru sýnileg:
Ákurlöndin eins og haf
undir sólar geisla-staf,
ung og frjó og efnis-sterk
iðju-handa kraftaverk.—
Sérhver ykkar bygging ber
—bjálka-kofinn horfinn er—
vott um hagsýnt hyggjuvit,
happa-gjöldin fyrir strit.

Hingað vestur hugsað er,
heima þegar slys að ber—
þegar hjálpar þarf í neyð,
þá er hingað brautin greið.
Og þá byrði, yngda þjóð,
axlaðir móts við heima-þjóð.

Þarflegt var og þótti skylt,
þar var ekki málum spilt.
Ykkar hlýja hjartalag
hefir í sér vor og dag.

Alt af breikkar andans svið,
árdags-roða blasir við.
Ávalt lægir ofstopann
einlægnin við sannleikann.
Skoðun, hvers sem helst 'ann er,
hafi' 'ún birtu yfir sér
sálar-elds úr augum manns
eða bros frá vörum hans,
friðland á nú orðið þar,
útlæg þar sem fyr hún var.

Ykkar ná þau áhrif til
auðlegðar frá ljósi, yl.
Heim um þennan liggja lönd
líka fyrir plógmanns hönd.
Eru þar og iðju-verð
efni næg í þroskans gerð.
Þarf á ungt og aukið lið
af þeim gömlu að taka við,
er ykkar stríð um hopp og hag
hjúpar ykkar sólarlag.

# Vorkoman

1908.



Sólskins-flóð—
það fyllir nú heiminn með lifandi ljóð,
og langt að úr geiminum bláa
það barst yfir bólstrana háa.

En það lag!
Eg trúði því naumast slíkt töfrandi lag
frá tilveru-strengjunum rynni,
og ljóssins í litskrúði brynni.

Ekkert kíf,
en syngjandi unun og yrkjandi líf!
Og ástina' og æskuna bjarta
sér vorblíðan vefur að hjarta.

Sunnan-blær!
Svo glaður og léttur eg heyri þú hlær
í gáruðum glitskýja-tjöldum
og glampandi vatnanna öldum.

Gróðrar-mögn,
frá dauðanum köldum og kyrðstöðu-þögn,
með broti og eyðingu ísa,
hins unga vors rísa.

Nú vildi eg
eiga þann skygnleik, sem vísaði veg,
og vængi, sem haf mætti' ei hamla
að heimsækja dalinn minn gamla.



# Ex-voto.

Hans óskheita þrá var svo hafræn og hrein
sem hillingin blástranda útsýnis-fríða.
Frá sæheim og blæheim, eilíf og ein,
á ytstu djúpum hún brann og skein
í óði með litbrigðum lífs og tíða.
Því lagði hann Apríl sitt lifandi skraut
úr liljum og rósum á moldir í garði,
og svalmjallir vindur úr brimsköflum braut,
og boðinn varð stormglaður, lyftist og þaut
sem snjóhvítur sæskáldsins syngjandi varði.

Ei eldurinn ljóðsins við daghvörfin deyr,
né dvínar sú hreyfing í söngsins bárum,
sem vakti sá kraftur, er vakir og þreyr,
og víðsýnið birtir og fegrast þess meir,
sem heiðríkjan vex yfir eilífðar árum. —

Hann hvassveðurs hljómum frá stormhörpu sló
að staðnaða lífinu myrkvaðra svæða.
Hann frelsinu lifir og ljósinu nóg;
Í loft-bláma, sólskini, stormi og sjó
býr sálin hans sævígðu kvæða.



# Annaðhvort.

Eftir Ibsen.



Annaðhvort lífsins veislu við
þú verða hlýtur að gesta sið,
eða mæna augum bara
inn um lýstan glugga á sal,
úti þar við súld og sval,
ef vogarðu' ekki inn að fara.



HÚSFRÚ

# Guðrún Jakobsdóttir

EINARSSON.

Kveðið 16. Janúar, er var giftingardagur hinnar látnu.



Í drunga út við sjónhring, þá kvaddi kvöldið sól
og kuldann haustsins lagði á nakið foldar-ból;
Í tungls- og sólar-lausa og svarta nætur-arma
féll sorgar-mædda lífið með tárin sinna harma.

Eg man hve dimma nóttin var hörmulega hljóð—
þú heimilið þitt kvaddir, og sólin kvaddi lóð,
við hjartað kælu-storma in hrundu skóglauf blöktu,
í himins miklu fjarlægð í kulgeim stjörnur vöktu.

Nú ertu okkur horfin, en merkis-minning þín
á marga liðna daga slær björtum geislum sín.—

hvert vinar-orð þitt geymist og vermir kalda hjúpinn,
hvert vinar-bros þitt stafar á minninganna djúpin.

En hér hjá vinum þínum þú skilur eftir skarð!
Að skammdegisins rökkri hinn glaði dagur varð,
er þú, sem gleðiljósum þinn lýstir allan bæinn,
varst lífs af himni gengin í kalda dauðans æginn.

Og það er meðal annars, að þennan vetrar-dag
varst þú hjá okkur jafnan með fjöri og gleði-brag,
að þín eg geri minnast í litlu kveðju-ljóði,
sem líður út í geiminn á djúpu þagnar-flóði.

Þú veitst nú sjálfsagt ekki, hvaða dagur er í dag,
ef dagatalið gleymist við lífsins sólarlag.
Það gerir heldur ekkert, þó gleymist hverful tíðin,
þó glatist liðnir dagar og háðu lífsins stríðin.

Þér lífið var, sem öðrum, ei alt af vor og sól
né innilegust blíða og hjarta þínu skjól.
Þín frjálsmannlega hyggjan og skarpa skörungs-
lundin
við skamt þann varð að una, sem veitti tómleg
stundin.

Þú mæltir aldrei æðru né hræddist harma-sköp,
þú horfðir beint á lífið með öll þess stjörnu-hröp.
Þær hverfa, gjafir lífsins, sem hjörtun veikja, særa,
en hinsta gjöfin eigi — hvíldin langa, væra.

Og beisk var rauna-stundin, sem þrengdist fast að [þér.
Af þeirri sorg er myndin í huga dregin mér:
Þú, sjálf á leið til grafar, þinn soninn látinn kystir,
og satst með tár í augum, er burt frá þér hann mistir.

Nú hvílist þú hjá honum, og sofðu sætt og rótt!
Þín sakna vinir þínir. Eg býð þér góða nótt,
og þakka fyrir velgjörð og vinsamlega kynning.—
Við vonum hér og trúum og geymum þína minning!



# Til Íslands.

2. Ágúst 1897.



Oss finst það ætíð öllum vera ljúft,
vor ástkær móðir, hugflug hvert til þín.
Og eigi þarf að grafa geysi-djúpt,
uns gull í jörðu-minninganna skín.

Og það er svona. Þó við flyttum fjær
þér, fósturjörð vor, yfir lönd og haf,
að skærast hér sá sálar-strengur slær,
er snortinn verður þinni minning af.

Og það var ekki' í illu skyni gert,
til ámælis ei neinkrum okkar hér,
að burt við förum, heldur hverjum bert,
að hart í búi var þá mjög hjá þér.

Það eitt er víst, þó alt sé sniðið smátt,
vér erum, hverju svo sem verður beitt,
í sjón og raun ei síðri á nokkurn hátt
en systkin þau, sem aldrei fara neitt.

Þú skilur, sér það, veitst það eins og við,
sem viljum alt gott falli þér í skaut,
ef gætum, myndum við þér veita lið,
og velta þyngstum steini af þinni braut.

Og þennan dag vér höfum helgað þér
og honum, sem að mest og best þér vann,
því saga þín—hún ber þess merki ber,
að betur enginn reyndist þér en hann.

Og kæra land, vor kveðja til þín er:
Vér knýta gjarnan viljum land við land
með bróður-hugans brú frá lending hér
um bárudjúp og þinna stranda sand.



# Ráðlegging.



Vertu ekki' að væta hvarm,
veiklun tár þér búa;
vektu' upp þrek í þínum arm,
þína sýndu hnúa.

Röngu máli taktu tak,
tveimur höndum vegðu;
inn um brjóst og út um bak
andans sverði legðu.



# Vorvísur.

Nú heilsar birta' og blíða
og blessuð vorsins sól
með veldis-faðminn víða,
sem verður geimnum skjól.
Í hennar ástar-örmum,
á^als lífs brjóstum vörmum
menn gleyma höfgum hörmum
við horfið kulda-ról.

Í himin-blænum hreinum,
um hlíð og vog og nes,
og uppi' á grænum greinum
ég guðspjall vorsins les,
af röðul-fingrum ritað,
og roða-geislum litað.
Það fær mér hugmóð hitað,
þars haustsins kylja blés.

Oft grær á vörmu vori
margt voða-sár, er hjóst
í þungu þrauta-spori,
er þreytan áfram dróst.
Og ást og fjörið fleyga
er frjálst að taka' og eiga
þá löngu, ljúfu teyga
við ljóssins móður-brjóst.

En stutt er sælu-sumar—
hver sólrík stund er naum.
Þó eiga allir gumar
sér einhvern sælu-draum.
Þá heið er hjartans sunna
og hlýjust brosin munna,
er ljúft að lifa' og unna
á lífsins útfalls-straum.



# Grikkland.

Eftir Swinburne.



Styrjöld, smán og svika-sorti
sígur yfir hverja þjóð.
Von og ótti' í austri líta
egghvöss sverð og bruna-glóð.
Grikkland eitt sér ljós, og leitar
ljóss, sem brann af frægðar-móð.

Hellas, andans eigin móðir,
æðst á stríðs- og friðar-tíð,
ljóssins fold, sem hugann hvetur,
herðir kjark og þrek við stríð,
enn sér frelsis blysin brenna,
benda' í austur grískum lýð.

Grikkland, þar sem hæstri hafði
hreysti' og manndáð stöðu náð,

blindum heimi ber að augum
blossa-leyftrin yfir gráð
Grikklands frelsis, sem er svarið
sjálfum guði' og mannsins dáð.

Vindar þeir, er sigur-söngva
sungu fyr í grískri voð,
austan þegar flotinn flýði,
fagna aftur hverri gnoð,
sem und frelsis sönnum merkjum
siglir að Krít í hjörva-roð.

Þar bjó gumi goðum borinn,
gömul frá því herma ljóð.
Þar skal andans gríska göfgi
guðleg, sem ei skortir móð,
aftur kveykja á þeim vita,
sem áður lýsti snildar-þjóð.



# Minni kvenna.



Þú kona, sjá, þín kærleikssól
er klakann burt að þíða,
svo auðan reit, sem áður kól,
þín angan-blómstur prýða,
og þinna vanga rjóða rós
er rök af gleði-tárum.
Nú skín þitt ástar undra-ljós
sem eldblik lífs á bárum.

Að græða böli blóðug sár,
þú blíða-líknar-vera,
og þerra heimsins harma-tár,
þú hefir nóg að gera.
Þú krýnir geislum kalda braut,
það kærleiksverk þín sanna:
Þú léttir marga þunga þraut
á þyrni-vegum manna.

Því hönd þín mjúka hjúkrun ljær,
og hýrgar vangann bleika,
er hljóðan vörð þú haldið fær
við höfðalag ins veika.
Og yfir kaldan harma-hyl
þú hleypur léttum fótum,
og flytur löngun, ljós og yl
að lífsins hjarta-rótum.



## Kyrkju-svefn.



Seinmæltur klerkur með sönglandi róm,
í svæfandi mælginnar helgidóm,
þar tvísté í draumi og dofa.
Svefnhöfgi féll yfir söfnuðinn —
svefnlyf í ræðunni tók hann inn,
geispaði' og svo fór að sofa.



# Ekki heima.



Húsið verður hlýju-snautt,
hljóðir skuggar sveima.
Þar er alt sem það sé dautt
þegar 'ún er ei heima.



# Heima.



Birtu slær um hugans heim,
hýrna dagar naprir,
þegar komin hún er heim,
hverfa skuggar daprir.



# Ekkjuharmur.



Eg skal bera harm í hljóði,
hjartans ljúfi ástvin góði!
kyssa þig í kvöldsins óði,
kalla' á þig við morguns-ár—
hlúa' að þér í hjarta mínu,
hugsa' um þig und leiði þínu,
geyma þinna ljóða línu,
lauga andvökunnar brár
mínum tárum, meðan falla
minna sorga' og rauna-tár—
þau líða þessi æfi-ár.

Margt er ljúft að muna' og geyma,
mörgu væri betra' að gleyma,—
huggun áður dreymda dreyma
drauma fylta æsku-þrótt.—
Aldrei gleymi' eg næðings-njólu,

Nóvembers þá hrannir sólu
breiðar hvítu faxi fólu.
Ó, feigðar-kalda, langa nótt!
Alein var eg, umhverfis mig
aðfall dauðans, hljótt og rótt,
andlát þitt og eyði-nótt.

Svift er ég nú æfi-yndi,
áveðurs í frosti' og vindi,
tómleikans á trega-strindi
titra eins og kulda-strá.
Dapurt finst mér úti, inni
eyðilegt í sálu minni.
Þröngvir mjög að þungu sinni
þögn, og nóttin dettur á.
Dái' eg þig í drauma-inni,
dreg eg huggun mína frá
helgidóm, sem hjartað á.

Eg skal vona, trúa, treysta,
tendra mína hinstu neista.
Hefi' eg bæn til himins reista,
heitra tára grunnur ber
bæn, sem orðar andvarps-tunga
undir fargi sorgar-þunga,
á þessum stöðvum dauðans drunga.

Drottinn, sá sem var og er,
miskunsamur guð og góður,
gefur þig síðar aftur mér.
Ó, besti vinur, bið fyrir mér!

Eg skal bera harm í hljóði,
hjartans ljúfi ástvin góði,
kveða' um þig með kvöldsins óði,
kyssa þig við morguns-ár,
halla þér að hjarta mínu,
halda þér að brjósti mínu,
láta geisla' úr ljóði þínu
leggja' um andvökunnar brár,
þar sem tárin þéttast falla,
þessi einverunnar tár.
—Þau líða senn mín æfi-ár!



# Gullbrúðkaups-ljóð,

til Símonar Símonarsonar og Valdísar Guðmundsdóttur.



Aftanskins frá elda-glærum
enn þá glömpum slær að hærum.
Æfisól er ofar boðum,
enn þá byr í gömlum voðum.
Hálfa öld var ýtt í strauminn,
aldrei gefið slakan tauminn.
Von er því að vel sig hafni
vit og orka', er sitja' í stafni.

Stundum næddi nokkuð kaldan,
naum var lending, þung var aldan—
landnáms-æfin köld á kjúkum
kvíða-fullum, hugar-sjúkum.
Þá, sem áttu' ei eld í sinni,
alla kældi' í framsókninni.
Kepnin varma varð að leggja
vinnuhöndum ykkar beggja.

Sitjið heilir, heiðurs-gestir!
hátt í lofti kvaka þrestir.
Það er sálna sumar-minning,
söngur yfir lífsins vinning.
Ykkur leiðir óms hans bára,
eftir samleið fimmtíu' ára,
yfir forna, farna vegi,
friðar-milt þá hallar degi.

Kvöldið bjart sé ykkur yfir,
—enn þá ljós í vestri lifir—
eigi leið til ykkar ranna
ást og virðing góðra manna.
Nú, þótt fölvi feli teiginn,
færir ykkur blóma-sveiginn
happadís, og heiðurs-merkið
hefur eftir dagsins verkið.



# Heimkomu-minni,

til hjónanna Guðm. og Jónínu Christie.



Þið hurfuð í geiminn,
er haustaði að,
í blíðviðris heiminn
á bjartari stað.
Þið ljós-varmann gistuð
við litbrigða-sæ,
þið lilju-ilm kystuð
í friðandi blæ,
þá við af oss hristum hér hávetrar-snæ.

Við horfðum í bláinn,
vor hugur tók skeið
og hlýbrjóstuð þráin
með ykkur á leið,
og óskirnar kvöddu
og vinmæli á vör,

en vonirnar glöddu
með hressandi svör,
í hiklausri röddu um heimkomu-för.

Af als lífsins vinning
er vináttan best.
Þar fegurst er minning,
sem mannúðin sést.
Og stærst er það tapið,
er sál týnir sál,
en sólríkast skapið
og hlýlegast mál,
þar sjónir ei glapið fær glys-lyndis prjál.

Og hugvildin réttir
nú hönd ykkur tveim —
við þéttara settir
og þið komin heim!
Og heimurinn smái,
sem hér komið til,
svo hófst skjótt úr dái
með bjarma og yl,
sem dögg þver á strái um dagmála-bil.

Þá öfugleiks andinn
í einrúmi dvín,

og frostkulda-blandinn
hann flæmist úr sýn,
þá rakið úr vöfum
fær einlægnin yl
frá árgeisla-stöfum
og kvöldsólar til,
svo birti' yfir höfum um huglanda-skil.



## Laufin.



Öll lauf þessa fjall-lausa, frostkalda lands
nú fölna í haustvinda kælum.
Í kvöld þau hinn síðasta dansa sinn dans,
því dauðinn er þeim nú á hælum.



# Leirflagaborgin.



Þau stássa sig strætin og torgin,
það stöðvar sig pollur við poll.
Hve ljómandi' er leirflaga-borgin
og loftgóð og sjúklingum holl!

Og for-eðju dökk-gráir dreglar
svo dæmalaust vel fara hér,
og árdagsins ásjónu speglar
hið óhreina regnpolla-gler.

Það er svo sem borg, sem vér byggjum!
Og blessað sé alt hennar ráð,
með grunnskektum hygginda hyggjum
og hallranga umbóta-dáð.



# Þorsteinn Erlingsson.



Hann kom sem bylur á blæjalogn,
er bylgjast hylur og rýkur sogn.
Slík stormhljóð höfðu ei heyrst þar fyr,
og hlustir töfðu við glugga' og dýr.

Menn fundu svalann þar anda inn
og allan kalann við fláttskapinn
og óbeit mestu á öllu því,
sem einhver pestin lá dulin í.

Þar hafði enginn svo ýtt við þeim,
og örugt gengið til þeirra heim,
og rofið hreysið of höfði því,
sem hugsanleysinu dvaldi í.

Þeim fanst ei þarft svona feiknlegt svif
og furðu djarft þetta niður-rif.

Og hatrið grettist og gremjan oft,
er gekk inn þetta hið nýja loft!

Og þar í leyni, sem lymskan beið,
með löngu veini hún korknuð skreið:
Þar stóðu oddar á illfylgjum,
og ægðu broddar á þyrnunum.

Og strengir sungu og ljóðið leið
með loga-tungu sitt beina skeið,
og brann sem alda við árdags blys
með úfinn faldinn og kviku-ris.

Hver fær af sveitum svo bogann bent,
og biturt skeyti að marki sent?
Hver slær svo eggjar í íslenskt stál
við íshafs hreggin og fjalla-bál?

Nú þrumir arinn í þagnar-kyrð,
og Þorsteinn farinn og gröfin byrgð!
En bjart er enn yfir útsýn lands,
því eldar brenna í kvæðum hans.



# Skafti B. Brynjólfsson.

(1860—1914)



Ef sást þú hann, þá sást þú mann!
— Í samræðunum hver það fann,
að einhver veigur var í því,
sem vitið brendi svörin í.
Og þetta handslag — þér svo nýtt,
um þig fór eins og veður hlýtt.

Nú þykir orðið autt í rann,
og enginn skipar bekkinn þann,
er sat hann fyr, og sætið er
með sorgar-tómið yfir sér.
En þetta, sem að þarna gljá'r,
er þögult minninganna tár.

Já, hér er liðið lífið hans,
og lokað augum þessa manns,

sem lögðu beint að öðrum oft
svo íslenskt, táhreint fjalla-loft,
að óhreinkan, sem inni var,
sá eigi fært að dyljast þar.

Hann leit í útsýn anda manns
og yf'r á bláfjöll þroska-lands,
og framsókn merkti 'ann manninn sinn,
og mannúð bauð hann velkominn.
Og því er skylt við skarðan hag,
að skila þökk fyrir liðinn dag.



# Ölduhljóð.



Vill ei huggast vatnsins jóð,
vinds í ruggu grætur:
Inn um gluggann' ölduhljóð
óma' úr skuggum nætur.



# Skammdegisþankar.



Þurfa nokkur þar til skil,
þá skal dæmt um liti,
hér fyrst ekki' er tími til,
að tala neitt af viti?

Jóla-haldsins þaufið þurf
þá fær nýja grunninn;
englar flúnir allir burt,
út eru ljósin brunnin.

Grátt er loftið þrætu-þings,
þoka' um sund og ósinn,
augum horfin Íslendings
öll eru norðurljósin.

Heyri' eg úti þræla-þramm
þreyta skeið til salsins;

hljótt er alt í huldu-hvamm,
horfin vættur dalsins.

Engin hugmynd á nú hrós,
alt skal vera þekking.
Okkar fyrsta andans ljós
er nú kallað blekking.

Fánýt tungan, fokstrá ljóð,
fossa úrelt hljóðin.
Nú er alt á nýjan móð
nurlað í hagnaðs-sjóðinn.

Himin-bliki um hafsins tjöld
hygg eg flestir gleymi.
Fjöllin þykja klúr og köld
kveifum vest'r í heimi.

Hefir orðið helst til seinn
helgra guða máttur:
Þjóðernisins einn og einn
er að bresta þáttur.



# Brynj. Gunnlaugsson.

Ort fyrir Halldóru, ekkju hins látna.



Eg þakka þér fyrir ástríkið alt,
þinn innileik, þýðleik og trygð!
Þar naut eg yls, þá ærið var kalt
og eyðilegt um bygð. —
Við lögðum að heiman með haustfölvans blæ,
og heim komum bæði við,
er stormurinn þaut yfir strokinn snæ,
og storknuð mjöllin féll að bæ,—
þá dautt var og dapurt um svið.

Þú, kistulagður, varst kominn þar,
að kveðja í hinsta sinn.
Og tárin gegndu, sem grátið var:
"Í guðs friði, pabbi minn!"
Eg dreifði mínum á dauðans braut,
og djúp minnar sálar brann,—

eg grét þeim í niða-nætur skaut,
og nóttin o'n að þeim hvarmvot laut,
og svefninn mér friðskjól fann.

Mín hjartslög bærast í hugsunum þeim,
sem hugsa eg til þín.
Eg veit þú horfir frá guðs þíns geim
með geislunum heim til mín. —
Eg kvaddi þig frammi í fjörunni þar,
sem fellur að eilífðar sjór, —
og æfinnar kvöldroði' í kveðjunni var,
í klökkvanum nálægð og hyllingar,
og vona veröldin stór.

Nú verður mér höfugt og vöknar um brá,
að vita þú horfinn ert sýn.
En sömu lönd tíminn og eilífðin á,
og eigi er langt til þín.
Eg kvaddi þig frammi í fjörunni þar,
sem fellur að eilífðar sjór, —
og kærleikans árroði' í kveðjunni var,
í klökkvanum okkar dag-geislar
og himinn svo heiður og stór.



# Utangarðs.



Litli fugl, um frost-auðn gráa
floginn yfir breiður snjáa,
hér þú bjóst þér holu smáa,
hjarnið í og kúrir þar —
ill-kalt þitt er æfi-far.
Fiðrið ýfir fúllynd gola,
fátækt verður slíkt að þola.
Þú ert ekki' að víla' og vola
um vinnuleysi' og tíðarfar;
kroppar í sarpinn kalið bar.

Þeim, sem hoppa' í hlýjum búrum
hengdum upp á gyltum snúrum,
þó að falli fönn að múrum,
flutt er als kyns lof og hól,
krásir fá þeir, kjass og skjól.
Ættu þeir við storm að stríða,

standa' á gaddi vetrar-hríða,
sjálfsagt minna' af söngnum þýða
syngju þeir með hljóðin hvell,
hraktir út um hjarn og svell.

Hér í glugga-trog þér tyltu,
tjáðu hvað af alhug viltu.
Þína veiku strengi stiltu,
stundar-hlé þá gefst í byl,
þó í frosti finnir til.
Eg skal þig af litlum leifum
láta fá á snjóa-dreifum
mola þá af hálfum hleifum,
hér sem finn í léttum mal.
Mitt í næðing njóta skal.

Skopið flóna, það við þolum, —
þetta' er frjálst, þó sé í molum.
Meðan eldur er í kolum,
okkar líf skal njóta þess,
vængjum lyfta, vera hress.
Hinir trúi' á frost og fjandann,
festi sig við tíðar-andann,
öskustó og eld fyrir handan,
eg á meðan skemti mér,
og svo stytti stundir þér.

Við skulum ekki grand um gefa,
geysi alt af trú og efa.
Fyrst er hungur sitt að sefa,
svo að kveða nokkur ljóð
út í dimmu' og drauga-þjóð.
Landar þínir öfunds-augum,
o'n af burst og mykju-haugum,
skáhalt renna, teygja' úr taugum,
tauta' í hljóði ýmislegt —
eins og fólk, sem eg hef þekt.

Þeim það má ske svíður sárast,
sjá þig ekki vera' að-tárast,
eða' úr hor og hungri klárast,
með haminn fiðurlausann þinn,
veslings litli vinur minn!
Þú ert ekki snjall að sníkja,
snatta' um eins og betli-skríkja,
eða flokks þíns fylgi ýkja, —
flokklaus þú, og einn á ferð.
Í anda með þér víst eg verð.



# Pálmi Einarsson.

Ort fyrir móður hans.



Þú horfinn ert, æfinnar yndið mitt,
minn ástríki sonur, með brosið þitt
og hjartans- og æsku-ylinn.
Nú finst mér eg ein, því andi þinn
hann átti samleið við huga minn,
er ávalt var af þér skilinn.

Um skammdegi lífsins er lág-geng sól
og lamaðir kraftar og fokið í skjól.
Í sárið mig svíður — það blæðir!
Og yngsta vonin mín vængbrotin er,
eg vef hana að mér í skjólið af þér,
þó sól þín sé sest bak við hæðir.

Og minningin þín, hún vermir minn veg,
þann varma eg inn í sálu mér dreg.

frá ylríku orðunum þínum,
sem mæltir þú við mig svo hógvær og hýr.
Að hjarta mér enn þá þinn faðmur snýr,
svo heiðir á himninum mínum.

Hann brúar yfir til annars heims,
um úthöf og veraldir mannlífs geims,
hinn lifandi kærleikans kraftur.
Hver geisli, er leggur frá sjálfs hans sál,
hvert sannleikans orð og hjartans mál,
það birtist í eilífð aftur.

Ég kveð þig, minn liðni, lifandi son!
en ljóðlaust með tárum og þeirri von,
sem leitar í ljóssins hæðir.
Og hönd mína legg eg hjartað á,
og hugsa' um, hve oft það er búið að slá.
En, sárið mér svíður og blæðir!



# Sjóðþurð.



Gekk til þurðar gleði-forðinn,
glaumsins tæmd var skál.
Landfastur er ísinn orðinn
í hans kældu sál.

Fönn er í svipnum, frost í brosi —
frýs það sjálft í hel;
andinn kaldur úfinn rosi,
orðin hríðar-él.



# Minni Íslands.

1905.



Þitt skraut að helming, húm og birtu,
þér hel og líf til samans óf.
Úr afskurð þeim, sem unnir hirtu,
þér Uður klæðið sneið og bjó.
En veðurhljóð og gnýr frá græði
á Gjálpar-rokkinn spunnu bræði,
og fjalla-mittin grænu girtu
með gróðrar-magni nið'r að sjó.

Svo varðst þú hafsins heimasæta
og hervíkingsins festarmey.
Nú ert þú landið minnum mæta—
vér munum þig, en gleymum ei.
Vér dáum þig — já, allir, allir,
og eigum með þér sólskins-hallir,
er sædjúp þína sanda væta,
og syngur voð í byrjar-þey.

Við skóhljóð brims og báru-dansa
þú birtir oss þín víkings-ljóð,
sem batstu' í strauma hvíta kransa
um kviku-úfið marar-flóð.
Vér lásum, skildum, lærðum, nutum,
og létum hrannir ríða' að skutum:
Vér sáum hjálm og hjörinn glansa,
og hugur fyltist stærri móð.

Sé smátt af vorum arfi eftir,
samt ættar-markið varir enn,
því þegar einhver hindrun heftir,
það hvetur oss að vera menn.
Vér finnum nafn þitt brent í blóðið,
oss býður stórhug Egils ljóðið.
Því hímum ei sem karar-kreptir,
en kunnum heldur ráðin tvenn.



# Systkina-kveðja.



Nú hefir þú, bróðir, lagt þá leið,
sem liggur til morgunroða,
og sú var þér opin gatan greið
í gegnum sker og boða.
Hinn sterki vængur, vor sem ber
úr vorum lífsins hörkum,
hann kemst nú að eins eftir þér
að eigin landa-mörkum.

Þar stöndum við og horfum hljóð
í hæða-djúpið bláa,
á kyrra stjarna geisla-glóð
í geimnum víða, háa.
Og hver sem sýnin andans er,
vor augu sjá það bara:
Að gestir erum allir vér,
sem alt af koma' og fara.

Og þú ert farinn! Skýlaust skín
í skuggann harms þín minning,
um grafar-djúp og dauða-lín
þín dagbjört vina-kynning. —
Á blóma-krónum hrímið hrín,
og hvítna grænir vellir,
en tár af augum ekkjan þín
í einverunni fellir.

Við kveðjum þig með þökk og yl
og því sem ljóð ei taka.
Hve sælt að finna falslaust til,
og fá að sjá til baka.—
Og hvert svo helst sem byrinn ber
þann boðskap, sem er mestur,
er gott að koma og kynnast hér
og kveðja og vera gestur.



# Vísur úr bréfi

til J. M. Bjarnasonar.



Sólskin og vorið sæla
sálin þín er og málið,
gott alt og glatt, sem elur
góðheimur, ljóss í óði.
Herskár í víking herja,
hvasst greipa sverð, og hleypa
fleyi úr friðar-lægi
fýsir þig ei að rísa.

Syng þú, og láttu sönginn
sálar hljóma á álum;
lognið lífsins þar fagnar
léttum röddum og nettum.
Búðu um und, og baði
beindu ljósa að rósum,
næðings þá kaldur naður
Norðra skríður af sporði.



# Efamál.



Ef hann veit hvað loft dautt er latri
lífsþrá mót-táhreinum blænum,
því opnar hann ekki í snatri
einhverja smugu á bænum?

Og fyrst þar að mollunni mein er,
þó mók-gefið fólk hana kjósi,
og böl er, hve birtingin sein er,
því bregður hann þá ekki upp ljósi?

Og eigi hann flugsterkar fjaðrir
og framtak til gagnlegrar iðju,
því stendur hann alt eins og aðrir
í aðgerðaleysinu miðju? —

Svo öflgur er álaga-dróminn
í aldanna harðsnúna þætting,

að vér þurfum annað en óminn
af innihaldsleysisins þvætting.

Um framþróun, mentun og menning
hann masar við skrifstofu-borðið; —
vér héldum 'ann hýsti þá þrenning
í höfði, er svo dýrt var orðið.



# Þjóðrækni.



Svo ei verði á kjúkum kalt
kafald fyrnsku-tíma,
þjóðræknina yfir alt
eru þeir að líma.



# Í ljósaskiftum.



Blaktir á földum loga-líns
ljós af köldum degi;
ég við öldur anda míns
einn á kvöldin þreyi.

Blysum vafin blikar smá
bragar hafin alda,
rímið stafar roða á
rósa-trafið falda.

Háttur yngir andans blóm,
ekkert þyngist tárum.
Stuðlar klingja' í óðar-óm,
eins og syngi' í bárum.

Sálin þröng og hugsun hljóð
happa-föngin spyrða.

Báru-söng og sólar-ljóð
sumir öngu virða.

Afl þó treysti okur-lið,
aldrei beislast jörðin.
Sumum veisla sett er við
sólargeisla-fjörðinn.

Fley við strendur lítils ljóðs
lætur að vendingunum.
Höfuðbendur eru óðs
afl í hendingunum.

Skýja-sora, sólar-bað,
sæ í voða-grandi
siglir gnoð mín yfir að
aftanroða-landi.

Stafninn brýtur ljósa lá,
leiði brýtur bragsins;
þar eg lítinn ein-heim á
ytst við hvítu dagsins.



# Björg Jónsdóttir.



Á björkum er frosthrím og fallinn er snjár,
og fönnin hún hylur þitt leiði.
En himinsins geimur er bjartur og blár
með blessaða sólina' í heiði;
hún skín jafnt á flakandi sálar-sár
og svellþaktar greinar á meiði.

Nú ertu' oss horfin, þú hugljúfa snót,
skjótt huldi þig nóttin hin kalda.
En nú geislar, sálhreini svanni, þér mót
sú sól yfir nátthafi alda,
sem leiðir fram blómin af ljós-vermdri rót,
er lífi til eilífðar halda.

Þín móðir við daganna deyjandi óm
nú döggvar með tárunum sínum
ið hljóðlega, ískalda auðnunnar tóm
á æfinnar stöðvunum þínum,

þars sorg-þögnin birti sinn bjargþunga dóm
í brennandi þétt-settum línum.

Sú sorg er svo kyrleg og kveljandi sár
með kuldann og skuggana langa;
hún dregur svo margbrotin minninga-tár
um mædda og fölnaða vanga.
Það lýir að bera mörg lífsþrauta-ár,
þá lífsins er örðugust ganga.

En aldrei þér grandar nú gaddur og vos
né gustur af tímanna hjóli.
Þó veturinn kreppi að með kólgunnar gos
á kulnuðu jarðlífsins bóli,
þá býr þú með æskunnar ylríka bros
í eilífu, friðsælu skjóli.

Þú léttir oft sár-snauðum bölið í barm
og blæðandi hlúðir að sárum,
og ráð-viltum aumingjum réttir þú arm
á raunanna storm-vöktu bárum.
Og því ertu kvödd með svo hjartnæmum harm
og hugvörmum skilnaðar-tárum.



# Norðanrok.



Dags við lokin lágar-dramb
legst í roku-hnakkann:
Mjallhvít stroka malar-kamb
mölvar og slokar bakkann.

Öldu-slóðinn slæst á hlíð,
stykki' úr lóðum brýtur.
Hranna-stóð um heima-svið
hungur-gróður bítur.

Út um sandinn, brims við brunn,
boða-randir finna
leikföng handa ungri Unn,—
eigur landa minna.

Hleður skvettu-lagi' á lag,
leggur þétt að ströndum

úfinn, grettan útdjúps-brag
undir sléttu-böndum.

Hrönnin sendir, hátt sem gín,
hljóm frá lendingunum.
Leggur enda inn til mín
óm af hendingunum.

Aldan skælist skalla-ber,
skín í hæla sognsins.
Það er að æla út við sker
eftirmælum lognsins.

Vatnið hátt, uppbólgið, blátt,
bragar-þátta efnin
tekur kátt úr kaldri átt,
í keyri á nátt og svefninn.



# Hann kunningi minn.



Mjög sjaldan á nábúa dyrnar hann drap,
var dulur í hugsun, en skoðunin föst;
og ekki menn kváðu' hann við alþýðu-skap,
og ærinn það töldu á manni þeim löst,
að hann átti' ei samleið við hugsanir þær
og húsgöngu-fleipur, sem daglengis gekk,
og það, að hann eitt sinn var aflögu-fær,
varð einmitt til þess að hann haturs-menn fékk.

Hann hafði þá stefnu sér marksett og mið,
sem mannúðin ákvað og drengskapur hans.
Ei alþýðu-venjan með eldgamalt snið
né okrara-skapur hjá pröngurum lands
með dalinn í lófa og loforða-skrum
gat lagt við hann teyming né komið úr stað,
því tálbrögð og hræsninnar flaður og fum
hann fyrirleit jafnt og hann hataði það.

Og of stór í vasa hvers embættis-gikks
og of-vaxinn hendi hvers metorða-snáps,
og þungur á sveiflu hvers hagsmuna-hnykks
og handfestu brögðunum varmensku-táps
hann var; en hann lærði' aldrei tískunnar tök —
hann talaði óhlífðarlega, þó satt,
þá sjaldan hann mælti, og svörin sín spök
við samfeldar hugsanir ramlega batt.

En seig er hún þrákeltnin þumbara-lýðs,
og þaulsæt er öfund á rógburðar-jálk,
og blóðugt er tannafar bítandi níðs,
og brestfeld er dygðin og trygðin hjá skálk.
Þeir gerðu' honum örðugt og atvinnu-spell
með illgirnis-rógi. En hvað var að sök?
Það eitt, sem þeim lakast í fyrstunni féll:
hann fýsti' ekki við þá að hafa nein mök.

Svo komst hann í fátækt og leiðindi löng.
Í litlum og afskektum kofa hann bjó
hjá börnum og konunni. Bjargráða-föng
öll búin að mestu, en hjarað var þó
á svolitlum leifum frá liðinni tíð.
Við lífið hann þreyttur og nauðugur hékk,
og hversdagsleg umhyggja, stritið og stríð
varð stælingar-viðauki sérhverjum hlekk.

En nú var hann lagstur í síðasta sinn,—
eg setti mig niður við rúmstokkinn hans.
Eg leitaði' að geisla sem lagt gæti inn
í lágnættis-rökkrið í hjarta þess manns.
Mig langaði' að hressa þá hugdöpru sál,
og hendinni strauk um hans megruðu kinn.
Eg reyndi að hefja upp huggunar-mál,
því hann, þessi maður, var kunningi minn!

Hve umbreyttur virtist mér hann nú í hug,
því horfið var kunnuga viðmótið burt,
sem átt hafði mikið af dirfsku og dug.
Nú dofið var andlitið, kaldlegt og þurt,
með alvöru þeirri, sem eymdanna deild
og örbirgðar-djúp hann til botns hefði rýnt,
og þó svo á svipinn, sem hugsana-heild
hann hefði' út úr sálunni' í ógáti týnt.

Hann þjáðist ei mikið, en legan varð löng,
og lífsaflið smám saman fjaraði út.
En nógu var honum hver stundar-bið ströng
í stríði við dauðann og fátækt og sút,
því hugurinn vóg hverja einustu ögn
á æfinnar ferli, sem gerði' honum tjón.
En spurningum horfði við húmið og þögn
sem hafdjúpsins geimur við formannsins sjón.

Eg sögn um hans ástand í bygð mína bar,
og bróður-þel ákvað að létta' honum mein,
og fljóttekin íslenska viðkvæmnin var,
en vastursöm framkvæmdin, spurul og sein.
Um síðir með það, er til samskota fékkst,
—sú summa mig gladdi, þó væri' ekki stór,
því algert eg hafði' ekki' á biðinni blekkst,—
eg bjó mig í snatri til vegar, og fór.

Á kvöldið var liðið, í námunda nótt.
Við nábleikju tunglsins og rökkursins lit
og það, hversu mér fanst alt myrkleitt og hljótt,
við marrið í hjarninu' og golunnar þyt,
mig greip einhver hryllingur farandi' um frer,
sem flóttamanns' beygur eg giskaði á.
Í lautunum svellanna glitti í gler
sem glápandi draugs-augu köld upp úr snjá.

Um stormnædda auðn, eins og stórbrimað haf,
lá stórfenni vetrarins, heflað og greipt,
og alt var sem tröllriðið, togað í kaf,
úr tindrandi ísing og frost-glerung steypt.
En fátæktar hreysi með hélaðri súð
var hjarnið þó skjólauki, fallið að gafl.
Af hreggviðrum lamið og hvítnað og gnúð
það hallaði sér eins og þreytt upp við skafl.

Eg hvataði för yfir fannirnar beint,
í flýti eg vatt mér í býlið hans inn.
En hjálpin sem oftar kom hér nokkuð seint,
því hér var nú látinn hann kunningi minn.
Við hrímhvítan vegginn á fjalir í frið
í frostköldum dragsúgnum lagður var hann.
En lágt sett og blaktandi líksins við hlið
stóð ljós, er á svo-litlum kertis-stúf brann.

Er kvaddi' eg og síðast þar horfði á hann,
mér harma-leið fjölmargra' í anda var sýnd;
hér dauðinn og skorturinn dagstarf sitt vann.
Nú duft er hann orðinn, en gröfin hans týnd.
En seinfæri mannúðar-votturinn varð
í verslunar-höndum sem gjald fyrir leg.
Og kofinn er horfinn við brekkunnar barð,
og búið að leggja þar alfara-veg.



# Jóhanna Pálsson.



Til þín fyrir handan hafið —
hafið kalda skuggum vafið,
hugir leggja hinstu' í drungann
hlýja kveðju' í báru-þungann.
Meðan ymur alda' á söndum
út með minninganna löndum,
gömul ár að æfi-þroti,
yngd í hverju geisla-broti,
koma aftur annað slagið
undir kvöld og sólar-lagið.

Vertu sæl! — Og sólin breiði
sína mildi á þitt leiði,
byrgi' hún mold í blómum inni.
Bjart er yfir minning þinni,
skörungs-kona, loksins lotin
líkt og eikin niður-brotin,

veður-nædd og urin árum
undir bylja-slögum sárum.
Líf þitt, frjálst og friðað trygðum,
fult var Íslands veðra-brigðum.

Langa æfi lifað fékkstu.
Leiðar þinnar seinast gekkstu
sjúk og hrum þín sáru sporin,
síðsta vilja-krafti borin.—
Aldrei varst með hálfum huga,
heldur þeim að vinna og duga,
lund til dáða-verka vísin,
vel gerð til að brjóta ísinn.
Skift var þeim með skýrum dráttum,
skapsins stóra aðal-þáttum.

Hatað gatstu hjartanlega,
hrygst og grátið innilega,
elskað líka heilum huga,
harma létst ei yfirbuga
þig, en ljósblik lífsins bjarta
lagðir varmt að þínu hjarta.
Þá var líf þitt laust við efa,
ljúft að þrá og fyrirgefa.
Fanstu þá hve féll að sárum
friðar-boginn yfir tárum.

Þú átt ítök enn þá víða
undir lögum rúms og tíða,
ert sem varst í ýmsra minni
enn þá lífs í veröldinni—:
Þegar einhver er að hugga
einstæðing, sem býr í skugga,
birtist þú með bros í augum,
borin eftir minnis-taugum,
eins og fórstu fyr á árum
fegins-glöð að hlúa' að sárum.

Óbreytt þú og íslensk varstu,
aldrei lánuð klæði barstu.
Hefðir átt í hinsta sinni
hvíld að fá hjá móður þinni.
Ættrót þín var utar sprottin
en við sjálfan bræðslu-pottinn.
Þú gatst aldrei skjallað, skriðið,
skarn og sorann ekki liðið;
brendir árla' og eins að kveldi
illgresið á hugar-eldi.



# Vetur.



Vetur flakkar frosta-blár,
fannir slakka velja.
Hríðar-bakki hliðar-grár
hreykir klakki élja.

Setur hnjót í beitar-bann,
bræðir grjótið sorum;
þungur mótar hauður hann
hvítum fóta-sporum.

Bæi skorðar skafla-múr,
skekur storðar-kápu.
Hríðin orða-köld og klúr
kveður á norðan drápu.



## Föðurlandsást.



Öfugt liggja okkar spor
til afreksverka mannsins.
Í pappírs-umbúð ástin vor
er til föðurlandsins.



## Hláka.



Snjáðir tötrar til og frá
trosna um flöt og hólinn;
vetrar-fötum foldar á
fjölgar götum sólin.



# Sigurlaug Stefánsdóttir.



Alt breytist! Þitt stundaglas útrunnið er,
og aflið úr þrælkunar-haldi.
Mín andaða systir, eg sé þig ei hér;
nú sveipar þig helskugginn kaldi. —

Hann byrjaði árdegis bylurinn kífs
að blása þér napurt um vanga;
og kalt var þér tíðum í kuldunum lífs
um klakann og hjarnið að ganga.

Þinn hrakninga-ferill var sorglega sár,
— nú segir ei meira frá honum, —
og samferða urðu þín ár og þín tár,
og útblætt er lífdaga vonum.

Og nú ertu friðnum þeim fastheldna gift
í fullkomnu skjóli hjá dauðum,

og nú ertu ótryggu athvarfi svift
og als konar þungbærum nauðum.

Þá náttskuggar draga' upp sín nauðungar-flögg,
og nótt hefir grátið á leiði,
þú glóir í sólvermdri drjúpandi dögg
mót dýrðlegu vormorguns heiði.

Þú lætur á blævang í himnanna haf,
í heildina stóru þú rennur,
og roðandi geislunum röðulsins af
í regnbogans skrauti þú brennur.

Þú lifir um eilífð í ljósanna hæð,
svo langt burt frá draum-myndum heimsins,
í lífsgeisla-hreyfing, í hitamagns æð,
í hjartanu eilífa geimsins.



## Skassið.



Enga, sem þannig er orða-frek,
eg hér um slóðir kenni.
Eg held jafnvel dauðanum þverri þrek,
að þagga niður í henni.



## Skoffín.



Víða' er lundin veil og grá,
vitið þar sem lítið er:
Hann hljóp í vonsku' er horfði 'ann á
haglega dregna mynd af sér.



# Lífs og liðinn.



Hann þótti slunginn, sleipur, flækinn,
og slyngur að hlaða undir fyrirtækin.

Hann bar í mörgu af bræðrunum rösku—
þeir bölvuðu honum í sand og ösku.

Hann hélt á þeim eins og hefli og sög,
og hjó og grópaði þeirra lög.

Og eftir samlyndis kulda-kaflann
þeir köstuðu' út netinu. Hann sá um aflann.

Svo dó hann. Þá féllst til æðru-efni,
og orðgjálpin klauf sig á nýju stefni:

Í lífinu var hann misindismaður,
í moldinni er hann dánumaður.



# Út, út!



Út, út í loftið alt heiðríkt og hreint,
í heilnæma víddina byggingar-lausa,
þar grundirnar hafa sitt gróðrar-magn reynt,
og grásvörtu regnskýin vatninu ausa.
Burt, burt! Því öllu því innbyrgða' er meint,—
út, út og burt héðan, hvað sem þeir rausa.

Hvert útsýnis nálgat er negld yfir fjöl,
og nóg er af leirnum og forinni hlaðið,
svo skyggi á sólris og sólseturs dvöl
og sumarsins ljósgárað árroða-vaðið.
Þín aðkrepta hugmynd er ásýndar-föl,
og eins og hún reikandi geti' ekki staðið.

En náttúran sjálfboðin svölun þér ber,
ef segir þú skilið við loftvondu bólin.
Svo kom út, hvar blærinn og bjartsýnið er,

og brosandi frelsið þar réttir þér stólinn.
Og rýmkaðu' um hugann og hjartað í þér,
því hér ertu frjáls eins og vormorgun-sólin.

Lát vindinn og sólskinið kemba þinn koll
og kyssa þig daggvotu laufin á enni.
Þá finnurðu' að móðir þín, hjúkrandi' og holl,
er heilbrigðust allra. Svo ver þú með henni.
Og þvo þig í straumnum, ei stöðnuðum poll,
og strjúktu' af þér ryklagið, eins þó að fenni.



# Leirbullarinn.



Þá list, sem honum guðinn gaf,
hann geymir ekki' í skápum.
Eg held hann yrki alt í kaf
með álnar-löngum drápum.



# Vestur-Íslendingar.

Miðsvetrar-samkvæmi, 1906.



Lúin hönd að heiman fór —
hælinn særði þröngur skór —
sveigt af þungum byrðum bak
beygði skilnaðs þrauta-tak.
Haf-nest smátt,
hráköld átt,
horfði, við
um eyði-svið.
Engin vissa, að eins von,
Íslands fylgdi týnda son.

Nú er önnur öld en þá, —
ekki týndist dropi sá
íslensks blóðs, sem burt um mar
bræðra-æða fluttur var.
Sama' er hvers

vestan vers
vildar-orð:
Á feðra-storð
vatns og andans ísa til
alt af leggi nægan yl.

Kraft í verkið, eld í óð
áttu' að leggja, Snorra-þjóð,
sannleiks-þrá í sóknar-dug,
sig'r í þinna vængja flug;
landnáms-bygð,
bróður-trygð,
betri dag
og rýmri hag
eignast þá, en oss þú gafst,
Ísaland, á meðan svafst.



# Í beitivindi.



Nú skal ýta út á djúp,
—undir þýtur strengur—
stafns með rýting Ránar hjúp
rista' í hvítar lengjur.

Gnoð voðsett og seglum knúð
sífelt þéttir skriðinn,
ólgan brettir börð við súð,
báran fettir kviðinn.

Fingrum smellir froðu-grá,
feig og ellilotin—
keyrir skellinn kinnung á
kvika' í felling brotin.

Slettum hreytir, hoppar inn
hrönn með breyti-lyndi,

þegar steytir knarar-kinn
Kári' í beitivindi.

Vatnsins böndin breið og væn
binda' á gröndum roku.
Lækkar ströndin laufa-græn,
líkist röndum þoku.

Senn í kjólinn seilast fer
svartrar njólu skagi.
Guða-bólið, Gimli, er
gylt í sólar-lagi.

Undrun blandar unaðs-stöð
óteljandi gæðum.
Hér er andans rétta-röð
raðað handa kvæðum.

Dagur eyðist, að fer nótt,
endar skeiða-bifir.
Húmið breiðist hægt og rótt
huldu-leiðir yfir.

Ár- að -streymi oss ber skjótt.
Ós sem heim skal krækja.
Vatnsins geimur; góða nótt!
Þig gott var heim að sækja.



## Kalt.



Kæla fingur frosta-göngur,
frjósa glófar mér að lófum;
þyrlar fönnum gustur geystur,
gnötra eg, um þunna tötra
mína glygg með Norðra-naggi
næðir, þar sem brustu bræðir.
Líður að kveldi, heim skal halda.
hugsa' um sól, en gleyma njólu.



# Til byltinga-skálds.



Þú átt ekki' án leyfis að anda,
þú átt ekki' að lifa sem frjáls,—
eða verk þinna vinnandi handa
skal verða þér sjálfum til táls.
Þú átt ekki, mátt ekki unna
í óð þínum degi né sól,—
þig skal þyrsta við þornaða brunna,
þú skalt þreytast við einangurs-ról.

Svo æpa' að þér hatrið og hrokinn,
og heimskan og almennings trú,—
og já segja peysan og pokinn—
þau prest-getnu umrennings-hjú.
En lút ei því óaldar-liði,
þó leggja þig vildi á glóð,
en syng eins og vindur í viði
þín varðstöðva ný-ortu ljóð.

Þú sleitst ekki buxum á bekkjum
í bandingja-skólanum þeim,
sem öllu vill halda í hlekkjum
í húsfylli' af rotnunar-keim.
Þú tálbeitu vanans ei tekur,
og trúgirni' á landflótta snýr.
En hugmóð í hjarta þér vekur
hver hljómur, er strenginn þú knýr.

Já, kveð þú burt skrípi og skussa
og skugganna náttförlan draug,
og hábundna, þýlynda þursa,
og þann, sem til nafnsins síns laug.
Ver frjáls eins og vindur um voga,
með víðsýni djúpt eins og sæ,
og hreinlyndi heitt eins og loga
og hreint eins og nýfallinn snæ.



# Vonin og eg.

BROT.

Er að leikjum illt og gott,
andinn reykull titrar.
Mánans veika gælu-glott
gluggann bleikan litar.

Þó að bleikir sálar-sýn
svipir leiki' á kveldin,
vertu' ei reykul, vonin mín —
við skulum kveykja eldinn.

Þú skalt snauð ei tóra til,
teygja' að auðum hlóðum
hendur rauðar eftir yl
yfir dauðum glóðum.

Oft mig gladdir, eg það ber,
en ýmsar raddir fýsa,
illa staddri' í elli þér
út á gaddinn vísa.

Er við hjúin eigum við
elli' og lúa raman,
við skulum núa verk úr lið,
við skulum búa saman.

Þó að sinnið margs á mis
mjög oft ginning sendi,
skuggavinnu skammdegis
skalt þú inna' af hendi.

Hitni mál og herðist þol,
hátt skal bála glóðin.
Farðu sál og sæktu kol,
sjóðum stál í ljóðin!



# Við leiði

SIGRÍÐAR PÁLSDÓTTUR.



Hvort er þessi varði, sem verndar hennar gröf,
steinrunnin andvörp af tómleikans töf?

Einveru-stundanna mæðu-tár og mein
minning um framliðna höggva' í kaldan stein.

En aldrei hið sárasta hjartans hulda kvein
heggur nokkur meitill inn í kaldan stein.

Aldrei nokkurt móður-tár marmara í
sýnt oss getur sorgirnar, sem að búa' í því.

Því það er alt af eitthvað í insta hugans hring,
í mannsandans myrkheim, í mannsins tilfinning,

Sem aldrei kemur fram fyrir augans sjónarhring,
því það er andans eigin, hin insta tilfinning.

Og þar á hún varða, sem vökva saknaðs-tár,
og ylgeislar verma við vonar morguns-ár.

Góða hjartað syrgir og gæða-ríka sál,
hver sem metur meira manndygðir en tál.

Inst í brjóstum tveggja, móður bæði' og manns,
í móðurinnar tárum og andvörpunum hans,

Er henni reistur varði, sem vökva saknaðs-tár,
og ylgeislar verma við vonar-morguns-ár.

Svo ei er þessi varði, sem verndar hennar gröf,
steinrunnin andvörp af tómleikans töf.



# Silcox.



Hann stendur hátt, og heilnæm fræði kennir,
og hjörtu lýðsins bróður-örmum spennir.
Í orðum hans má heimspekinginn kenna,
hetju með sverð og skáldið með sinn penna.



# Rugluð málfræði.



Eg gaf mig þér, og þú mér þig,
svo þinn eg er, og mín ert þú;
og EG og ÞÚ og ÞIG og MIG —
það er eitt og hið sama nú.



# Dagsetur.

BROT.



Fór á ról um freðna storð
frostsins gjólu-þytur,
dags og sólar andláts-orð
eyrum njólu flytur.

Fjörum unna færir mas
froðu-spunninn sími;
skugginn sunnu látið las
lágum runn' í hrími.

Ekki stansa útför má,
úfin dansar kvika;
stjörnur kransi kistur á
kasta, glansa' og blika.



# Til Jóns Ólafssonar

á 25 ára ritstjórnar-afmæli hans, 1893.



Vér komum hér saman að sýna þess vott,
að sjónina enn þá vér höfum,
og sjáandi sjáum, hvað gert er oss gott,
þó gullnum það letrist ei stöfum.
Og vinhlýjar þakkir þér viljum vér tjá,
er verkin til þjóðheilla lítum vér á.

Þú lagðir fram viljann og viturleg ráð,
svo viðreisn vor ættarjörð fengi.
Og þú hefir unnið með þreki og dáð
að þjóð-sómans hagsældar-gengi.
Og út fyrir stjórn-kytru stíuna' í kring
þú stækkaðir þjóðlífsins sjóndeildarhring.

Og hér er að vega hvað illkynja er,
og ofríki hrinda af stóli.

Þú vilt ei, að lýgin hér leynt geti sér
'í lífsgeislans helgasta skjóli.
Á ófrelsis hlekkjárnin heggur þú enn,
þau hlekkjárn, er sálfjötra kúgaða menn.

Haf þökk fyrir starfið þitt heima og hér,
og hreinskilnu, orðsterku ljóðin
svo frjáls eins og hrönnin, sem hamrana ber,
svo hugdjörf sem víkinga þjóðin.
Og verði þér ókunn og ókomin tíð
til auðnu og sigurs við daganna stríð.



## Undirgefni.



Jafnan blauð, og jámælin
jarmi gnauðar lausum,
kinkaði auðmjúk einfeldnin
ótal sauðar-hausum.



# Til Unitara.

25 ára afmæli Winnipeg-safnaðarins, 1916.



Sumar í för með blíða blænum,
það brosir við jörðinni, loftinu, sænum,
og vermandi kemur og lífgar og lýsir
með ljósið og ylinn. Hinn nýi vísir
á greininni, knappur með gulann kollinn,
í geislunum losnar við nætur-hrollinn,
er sunna fer yfir svell og kal
með sumargjöf inn í hvern forsæludal.

Þá fagna hugir og frjálsar sálir,
og foldin teygar þær ljómandi skálir,
er sólguðinn hefir helt á barma
með heilnæma miðinum sterka og varma;
og hraðar slær sigrandi söngsins æðin,
og sólstrengjuð harpa er bláloftsins hæðin.
En hver, sem ekki á sumar í sér,
er í sannleika dauður, hver sem hann er.

Og veri' ykkar frjáls-trú sumar í sálum
og sólarskins birta' yfir velferðar-málum.
Og megi' ykkar kyrkja myndir þær glöggva,
er úr myrkri sér vegi til ljóssins höggva.
Og verði' henni sumargjöf sannleiks og friðar
að sjá, hversu skilnings-þroskanum miðar,
og vita, að alt af hún-æsku-ný
þeim yngsta vorgróðri lifir í.



# Trúarjátning.



Á hegnandi harðstjóra þjóða
í hjarta mér trú eg ei ber;
en eg trúi' á guð í því góða —
guð þann í mér og í þér.



# Heimsókn.



Hvernig lukust upp luktar dyr?
Eg lokaði' er fór eg að hátta.
Kom hér einhver og opnaði'—eg spyr—
sem andvaka' um húmstundir nátta
einmana reikar og unir ei kyr,
eða andi friðar og sátta?

Það kom í nótt hérna engill inn,
annað að sækja' eða bæði!
En þegar hann sá, að kinn við kinn
við hvíldum, og hljótt var um svæði,
þá sendi hann hraðboð í himininn:
"Eg hrófla' ekki við þessu næði."



# Værir þú dauð.



Værir þú dauð, væri mér horfin
sú eina, sú alsendis eina
mér einlæga, hreina
sál.

Værir þú dauð, vildi eg dáinn
þá vera, þú ástin mín eina,
mér einlæga, hreina
sál.

Værir þú dauð, væri alt búið,
og yndið lífs alt tekið frá mér,
en einmana hjá mér
tár! —



# Evelyn B. Johnson.

1905—1916.



Hnigið er þetta hvíta blóm,
horfin er liljan smáa.
Eftir er skilin auðnin tóm, —
"Evelyn Beatrice" sorgar-róm
húm-blærinn hvíslar við gluggann,
hljóðnar og deyr út í skuggann.

Alt það, sem lífið eigi býr
orku til sigurs og stríða,
mótstæðu afli undan snýr,
óafvitandi í dauðann flýr,
þó langi að líta það megi
ljósið af næsta degi.

Veikluðum krafti er vært og rótt,
vera frá brautunum dáinn.

Lífdag sinn hafði 'ún í helgreipar sótt,
horft út í kalda rauna-nótt,
vorbjört með vonglaða róminn,
viðkvæm og fögur sem blómin.

Elskan og varúðin, verur tvær,
vöktu' yfir hennar beði.
Senn kemur vorið og varmur blær,
vermandi, lífgandi nær og fjær.
Mynd hennar býr þá í blómum,
barnsrödd í vorsins hljómum.

Evelyn! Minning þín, ástblíð og hlý,
er ættuð úr fegurðar-heimi
Enn ertu lifandi lífinu í,
lifandi bak við öll kulda-ský,
geisli í því víðbláins veldi,
varmi af tilveru-eldi.



# Vestur-Íslendingar.

2. Ágúst 1903.



Vort arftak virðist orðið smátt,
og oft um sjóðþurð talað hátt,
en samt vér höfum alt af átt
einn erfða-pening:—trygð.
Þó falli ryk, ei fyrnist hann.
Sá fægir best og geymir hann,
sem hér að bótum vega vann,
og vinnur þær af dygð.

Á málið vort og manndóms-gerð,
sem með oss berst á lífsins ferð,
vér setjum ekkert vöru-verð,
svo vægi' oss þrautin römm.
En niðri' í djúpi huga hreins
vér höfum það sem græðslu meins,
að verða' ei fyrir fótum neins,
né föðurlandi skömm.

Vér höldum trygð við alt, sem er
af Íslands svip í mér og þér —
það alt, sem fæsta bletti ber
og blasir helst við sól.
Á innlent þjóðfat íslensk bót
skal okkar seiga þjóðlífs-rót,
og lögð á margra lita mót,
sem loft í blóði ól.

Þú Kanada, með málm í mó
og mestar sléttur, vötn og skóg
og landnáms-söng við siglu' og plóg—
þín sól er okkar skjól.
Þín menning, hún sé menning vor,
þitt mannvits-stig vort þroska-spor,
þín brjóstamjólk vort þrek og þor,
og þú, — vort höfuðból.



# Gröfin hans Gests.



Engin sjá þess merki menn,
hvar þú liggur lík í garði;
lýsir enginn minnisvarði
leiði þínu yfir enn.
J. Ó.

Jú, hér er gröfin — hælar reknir niður
við höfðalag og fótagaflinn — merkin,
og visnu stráin, vindsins nöldur-kliður;
en vottur hvers vér metum snildar-verkin
er staurar tveir, sem fúinn festist viður,
þá fjölgun ára vefur gleymsku serkinn.
Vér lesum "Vordraum", látum oss það duga,
með lofi annars vana-gjarna huga.

Oss langar ekki' að flytja' úr hagnaðs færi,
en finna aðferð þá sem pening treyni,
og láta' hann Gest, sem látinn ei hann væri
en lifði enn þá, vinna fyrir steini.

Það naumast yrði' á samviskunum særi,
að segja, ef það tækist, helst í leyni,
ef ekki, eigna' oss sómann af því sjálfum,
hve sæmdin verður jöfn í tveimur álfum.

Ef verkin sjálfs hans, sögurnar og kvæðin,
vér seljum ei svo nægi fyrir varðann,
þá dugar enn þá tveggja hæla hæðin.
Vér höldum oss við gamla mælikvarðann:
Vér trúum því, að það sé fólksins fæðin,
er fyrirtækjum geri kostinn harðan.
Svo losnum vér við töf og eyðslu orða,
og alt af fáum næði til að borða.



# Þökk fyrir bók.

Til konu höf. á jólum 1899.



Sæla er sumri
í sólar gjöfum —
ljúfar lífmyndir;
svo er með góða gjöf,
gefanda' ef fylgir
ylur ástríkis.

Þannig þessi gjöf
þiggjanda' í brjósti
hlúir hugblómum.
Finn eg ástar-yl
úr opnu hverri
hennar trúa hjarta.



# Silfurbrúðkaup

Jóns Helgasonar og Margrétar Jónsdóttur, 1911.



Þið brúðhjón, er séð hafið sólrisin blíð
á samleið um fjórðunginn aldar,
nú hvarflið í anda að útstreymdri tíð,
er árloga blikandi faldar
á minninga-himninum hefja sitt skin
í heiðríkju daganna mildu,
sem geislana eiga og vorið að vin,
og við ykkur aldreigi skildu.

Því öllum, sem til ykkar lagt hafa leið,
þeim lundgleðin brosti á móti,
hvort lengstur var dagr, eða skamdegis-skeið
með skuggann á blómi og grjóti. —
Það vermir um brjóstið og hlúir að hönd
að hittast á góðvina slóðum,
og nema því aldraða yngingar-lönd
mót austri og dagroða-glóðum.

Já, hér er það ætíð, að hlýindi' eg finn,
og hingað menn glaðværðir sóttu.
Og þess vegna gengum við óboðin inn
á ískaldri Janúar-nóttu.
Og hingað við komum svo hug-glöð og frjáls
með hollvætta góðvildar-liði,
að flytja' ykkur óskirnar árnaðar-máls
frá einlægni, samúð og friði.



## Kvöldganga.



Hljóð við gengum heila stundu
und himni grám við svalan vog.
Í hjörtum stormar stríðir dundu
með stjörnu-hröp og glampa-flog.



# Signý Pálsdóttir, Olson.

1848—1913.



Það fækkar vorum forna lýð,
hún fyrnist okkar landnámstíð.
Þeir gömlu hníga hér og þar,
sem hófu' upp merkið framsóknar—
sem kveður og blessar síðsta sinn
lífs sólar-bros og dögunin.

Og hún var ein af þeirri þjóð,
sem þéttast veður-megin stóð,
þar sem að frost og fátæktin
til fósturs tóku nýbýlin.
Og þar var það sem vel hún vann,
að vefja hlýju' um aumingjann.

Hún rétti' út hönd í hörku-byl,
og hælislausa dró sín til,

þá, sem að fram um víða-vang
þar voru' á lífsins útigang;
og flasráð hefði flæmt af leið
í forræðið sem nærri beið.

Því það var ávalt lífs þíns líf
að leiða, styrkja, vera hlíf,
þú lagðir tíðum líkn mót þraut,
og litlum fótum sléttir braut,
og það sem helgar himininn
varð heilagt ljós við nábeð þinn.

Og minning þín við þinna tár
og þungan harm og opin sár,
í friðar-geislum sálar-sýn,
á sigur-krönsum lífsins skín.
Og mannúðin þig kveður klökk:
Fyrir kærleiksverk þín hjartans þökk!



# Stjarnan mín.



Ei Betlehems-stjarna er stjarnan mín,
en stjarna' ertu eins fyrir það.
Sem friðurinn geislinn þinn frá þér skín;
úr fjarlægð hann kemur, og berst til mín
í einveru' á afvikinn stað.

Mig dreymir ei báru, sem brotnar við strönd,
né brimgnúin flök af súð;
mig dreymir um himinsins-heiðríkju-lönd
og hvíta lognið með sólskins bönd,
sem glóa við góðviðris skrúð.

Mig dreymir ei brosið á kafrjóðri kinn,
né kraftinn í rjúkandi skál.
Þú dregur birtu' yfir drauminn minn,
svo dreymi mig, stjarnan mín, geislann þinn
og ljósið í lífsins sál.

Mig dreymir ei sálirnar settar í ís
á sorga og úlfúðar land;
mig dreymir ei um það, að dauðinn sé vís;
mig dreymir um vonanna paradís
og andanna bræðra-band.

Þá bróðurlund munnfylli' er meira verð,
og maganum vitið og sál, —
já, þá verður gaman að fara þá ferð,
sem fyrir svo löngu var hugsjónum gerð,
því þá verða mannjafnaðs-mál.



# Söngkonan.



Nú fatast henni íslensk orð á tungu —
óðsins mál hún leggur undir farg.
Hún hefir enskað í sér barka' og lungu,
eða stemt við þjóðar-hljómsins sarg.



# Gimli.

Hver blómstrandi flöt þín er fögur að sjá
og faðm-mjúk sem æskan í leik.
Hún roðnar hér, óhreystin, öskugrá
af eimyrju' og stórborgar reyk.
Og fastheldin vættur á vatni, í skóg,
á verði er kring um þinn frið —
og þess vegna hvíldin og þess vegna ró,
ei þróttlausa bagsið, en værðin nóg
með hálfgildings helgidags snið.

En fegurst mér lítast þín ljósbjörtu vé;
þitt loft er sem heilnæmið tært,
þitt skínandi vatn og skógar-hlé
í skrautdaga klæði er fært,
með gullhlaðið sólar um öldu og eik
af aftni og morgni hnýtt. —
En smátt er í áranna aflrauna-leik
það afrek, sem vonin þér lofaði en sveik,
þótt þú hafir þolað og strítt.

Hjá forsjálni, utan við glauminn og gort,
sé geymd þinna heilla rún,
þótt stritvinnu arður við einveru' og skort
sé að eins þín gróandi tún.
Þeir segja' að þig langi' ei að lyfta þér hót,
við lífs-þroskann farir á svig,
og slælegt sé alt, sem á íslenska rót,
og öndvegi' ei skipar við höfðingja mót,
slíkt gildi og, Gimli, um þig.

Vér óskum þér framtíðar, íslenski bær,
og auðnu með starfa þinn;
og hlúi og andi' um þig hreinasti blær
í hjörtun og sálirnar inn.
Og verði það aldrei af ástæðum sagt,
að úrhendis gangi hér flest.
En happ hvert sé til þinnar hamingju lagt,
sem hollviljinn á og ráðið spakt,
og lofsverðast lifir og best.



# Sigurbjörn Jóhannsson.



Það er ei, að þín sé gröf
þakin blómstrum rjóðum.
Nú hef'r önnur önn og töf
eldi' af Braga-hlóðum
stökt og dreift við storma-köf,
strenginn sneitt að hljóðum,
er þig Helja' í hinstu vöf
hreif á brott frá ljóðum.

Reynsla þín var kulda-kyns—
kom frá snæ og svellum;
aldrei þó að ófòr hins
ókst með lófa-skellum.
Sat á brún þér viðmót vins,
vangann brosið féll um:
Hríðin strauk um stofninn hlyns,
stormur þaut í fellum.

Þegar virtist skýja-skil,
skíma tók um dalinn —
fékk þér lífið farar til
fremur léttan malinn.
Fóta-særi galt þér gil,
griðrof næðings-kalinn.
Skáld-lund náði' í óðar-yl—
ösku niðri' í falinn.

Þegar varð þér kulsamt kveld,
kyrð í ranni tómum,
að þeim helga, hlýja eld
hélst þú fingurgómum.
Þín var lund að ljóði feld,
læst í klökkum hljómum,
Fræðslu-tilraun fátækt seld —
föðurlands að dómum.

Farinn burt í betri heim—
burt að stærri ljósum,
dýpri, fegri hörpu-hreim,
hreinni sumar-rósum —
ert þú nú, og guðs í geim
geisla laugast ósum;
átt þér bú við röðla-reim,
roða' af degi ljósum.

# Andlitin.



Alt er nú verslun og vara,
svo viðskifta-lífið ei þver.
Og máluðu andlitin eru
enn þá á markaði hér.

Og hulið er hörunds-lýti,
hver hrukka toguð úr sýn,
og nú er hún ungtísku engill
hin aldraða dóttir þín.



# Krögguv.



Hnigna tekur heyrn og sýn,
hugann raunir beygja.
Kerlingin, hún mamma mín,
mikið á bágt, þeir segja.

Hún kvað orðin hæru-grá,
hrum og þung á fótinn,
hrukkótt kinnin, höndin blá,
hnýtt um liðamótin.

Fornum reitum fordóms-blær
í fúa hefir snúið.
Hún í afdal, öllum fjær,
einræn hefir búið.

Það mann skyldi undra ei,
ef hún virðist lúin;
ráðsmaðurinn ráðlaust grey,
rifrildissöm hjúin.

# Flóttinn.



Með hraðbyr og eimkrafti, um ljómandi lönd,
á láði og sævi að heimskauta rönd,
hver stundin er orsök til ótta —
því óvinur sá, sem undan hann flýr,
í álfunum heimsins ei griðastað býr
þeim feigð-elta manni á flótta.

Und ítölskum ljóshimni, svissneskri sól,
í sælunnar skrúðreit, sem jarðlífið ól,
hann eltir hann alt af sem skugginn.
Og jörðin og sjórinn og loftið og ljós
ei lætur hann finna þá vonanna rós,
sem þráir hann hræddur og hnugginn.

Og hjartanu lífsins hann hallar sér að,
í heiðríkju sólskinsins gengur í bað,
og krýpur á kné sín til bæna.

Með stunum hann situr hjá sjúklinga-fjöld,
þá sól roðar vestrið og hafs-þungu skjöld
og kyrkjureits grundina græna.

Og árangurslaust virðist algert hans strit,
og allur hans lærdómur menning og vit,
sem hálofið hóf upp til skýja.
Í anda hann lítur við endandi skeið,
að æfin, er virtist svo sólbjört og heið,
gekk öll í það eina að — flýja.



# Dauðinn.



Stöðvun upp úr rangli og ruggi,
regla föst með sérstakt lag,
öllum þreyttum aftanskuggi
eftir heitan þrældóms-dag.



# 'Afturgöngur' Ibsens.



"Nobody doubts the truth of this drama—that the sins of the fathers are visited upon the children — — but why write of the ghastly thing? Let us forget it if we can."

Free Press, 1904.

Þeim svíður af Norðmannsins svipu-ól,
þeim sýnist þar griðfátt og lítið um skjól.

Og saklaust hirtir þeir segjast vera,
og sjá ekki vitund hvað slíkt á að gera.

Þeir auðvitað skilja, hvar alt á heima,
en æpa: Látum oss gleyma, gleyma!

Sinn gamanleik hafa þeir horft svo á,
sem hygðust þeir myndu' ekki annað sjá.

Er mæta þeim korkuleg kramar-jóð,
þeim klaki rennur um merg og blóð.

Og andkalt legst myrkur á ættgöfgis bólin,
er Ósvaldur hrópar: „Sólin, sólin!“

Það er ekki heimskunnar hlátra-spil,
sem hér er leikið — þeir finna til.

En siðferðið, löngu sprungið og spengt,
úr spöngunum molnar, sé það rengt.

En sé alt hér þvegið hvítt og kvitt,
ja, hver mun þá vilja líta' á hitt,

og andspænis standa ætternis-draugum
og eldgömlum syndum og vitfirrings-augum,

er röddin heyrist svo hryggðar-gljúp
og hreimlaus, sem kæfi' hana sorgar-djúp:

„Sjá þú nú, ekki fer alt það í hvarf,
sem Alving gamli lét mér í arf.“



# Eiríkur Magnússon

## ÁTTRÆÐUR.*)

1. Febr. 1913.



Í mörg spor þó árum fenni,
uns þau hverfa sýn,
fríða, aldna íturmenni,
eigi týnast þín.—
Heillaósk vér héðan vendum
hranna yfir bug,
þá úr vestri þér vér sendum
þökk og bróðurhug.

Þína snauðu þjóð og landið
þú fyrir hjarta barst;
hennar köldu kjara bandið,
knýtt að henni, skarst.

*) Þegar Menningarfélagið hér í bænum gekst fyrir og hélt samkomuna á áttræðis-afmæli E. M., hafði eigi lát hans frétst, en hann andaðist skömmu áður.

Gegn um loga' í ljóði' og blóði
leitst þú gamla Frón.
England, völd þess, gull og gróði
glöptu þér ei sjón.

Áttatíu ára þungi
er á herðum þér.
Þinn hinn hrausti, ávalt ungi
andi vel hann ber.
Þó að blikni blöðin kvista,
bjarkar líf ei þver.
Njóttu dagsins, ljóss og lista,
langt til nætur er.



## Staka.



Kalt er loft og kulda-ský
kolgrátt bjálfann skekur;
tunglið eirrautt út úr því
annað hornið rekur.

# Föðurlandið.

Brot úr týndu kvæði.



Já, svona' er það,—eg get ei að því gert,—
ef gengur eitthvað þessu landi móti,
og oft, ef það af einhverjum er svert,
er eins og heitur straumur um mig fljóti,
sem taugar, blóð og skap mitt hafi hert
hver hrakspá mælt af önuglyndum þrjóti.
Mér finst þá vera færi til að prófa' 'ann,
og fingur mínir kreppast inn í lófann.



# Smjaðrarinn.



Á sérhverjum degi hann sætindi býður,
og setur sig við hverja einustu gætt
svo tallipur, mjúkur og makalaust blíður,
með málfærið alt saman hunangs-sætt.

# Kvöldgöngur.



I.

Við rökkur-fall eg reika hljótt,
er ró og kyrð og vorblíð nótt
mig vefur ástar-armi.
Mér finst eg að eins hálfur hér,
mitt hjarta veit nú hvað það er,
sem brennur mér í barmi.

Þá grúfir húm of hljóðri storð,
eg heyri' úr fjarska vonglöð orð,
mér heyrist sem hún segi:
"Þann himin, sem að heiður er,
eg hefi beðið að hvísla að þér:
'þér gleymi' eg um aldur eigi'!"—

Svo geng eg einn—og alt er rótt.
Þú yndis-blíða Maí-nótt,
seg henni' í sætum draumi,

eg hennar sé, mitt hjartablóð
sé hennar, bros mín, tár og ljóð,
í sorg og gleði-glaumi.

II.

Nú hafa lengst hin ljósu kvöld;
hve loftið er nú tært!
Við daggar-úðans spegil-spjöld
sig speglar tunglið skært,
og aftankyrðin er svo blíð,
og ekkert hreyfir sig.
Æ, ástmey kær, hér einn eg bíð,
og er að hugsa' um þig.

Og hér í þessum þögla reit,
í þessum kyrra skóg,
mig hrífur löngun loga-heit,
svo ljúf en harmsár þó.
Með hrausta, trausta hjartað þitt
og heilsu-roða' á kinn
æ, kom þú, ástar-yndið mitt,
í opinn faðminn minn!

III.

Að horfa' á loftsins lampana,
sem lýstu himininn,

og gulu tunglskins-glampana,
sem gyltu lokkinn þinn,
og trjánna krónur kvikandi
og kossa-rjóða vör,
við kul í blöðum blikandi
og blæsins þyt í stör,—

Það hafði' eg kært í húmgóðum
og hreinloftuðum skóg,
í runna-fylgsnum rúmgóðum,
þars rökkrið tjöldum sló.
Og komdu aftur út í lund,
þar enn þá máninn skín.
Og sé þér einhver sút í lund,
hann silfrar tárin þín.

Við skulum sitja' á sama stað,
þars sátum fyr á tíð.
Það getur orðið gaman að,
þar grafa upp um síð
þá liðnu tíð, hvern kífsins kross
með kvíðans svala vos,
og líka margan lífsins koss
og ljúfra vona bros.



# Minninga-landið.

KVÆÐABROT.



Jökul-dyngjum fanna-föll
fellir lokar gjólu.
Enn þá taka Íslands fjöll
ofan fyrir sólu.

Svörtum hamra-ennum á
yfir brúnum grettum
svipur íslensks eðlis lá
undir þoku-hettum.

Enn þá vakir einn um nótt
yfir sínu landi
stór og forn og þrunginn þrótt,
þrautum stæltur andi.



Þegar sól er sigin lágt,
sölnuð allmörg blöðin,
hugar-gull mér gefur brátt
gamla bernsku-stöðin.

Eigi get eg að því gert,
ekki slitnar bandið;
þó sé klaka' og kulda hert,
knýtist það við landið.



Alt það, sem mér yndi bjó,
á sér djúpar rætur:
Íslands blessuð bygða-ró,
bjartar sólskins-nætur.

Sjái' eg aldrei svipinn þinn,
sé hér vestr í heimi,
meðan el eg aldur minn,
aldrei þér eg gleymi.

Hverfur þú ei huga mér,
hvert sem liggja slóðir;
þar þitt málað útlit er
og andlitsdrættir, móðir:

Bæja-raðir, engi, ár,
urðir, fen og sandar,
höfðar, tangar, heiða-flár,
hellar, malir strandar.

Hvammar, dalir, hýrleg tún,
hlíð með tærum lindum,
svipstór fjöllin, svört á brún,
suddaþoka' á tindum.



Man eg þína, svali sær,
söltu, kviku strauma.
Inn sig vafði aldan tær
í æsku minnar drauma.

Sær, þú gatst mér stundir stytt,
styrkt og glætt minn anda.
Ljóð eg oft og oft las þitt,
öldufall, við sanda.

Nótt mér sýndi nes og tind
í nætur-sólu glansa.
Saman heyrði' eg sjó og vind
syngja, hlæja, dansa.

Sat eg oft við sævar-hyl
síð í hafdjúps-kælu,
fanst mér þá eg finna til
fullrar lífsins sælu.



Eitt á köldum ægi-stig,
ættarlandið hvíta,
styrki guð og gæfan þig
glaðan dag að líta.

Hylji þinna barna brek
birta nýrri tíða,
svo að fólkið fái þrek
fyrir þig að stríða.

Standi það sem styður hag,
styrkist sona-bandið.
Blessist hvert þitt bygðarlag—
blessist gamla landið!



# Gleðileg Jól!

Til St. Péturssonar.



Glaðra Jóla eg þér ann,
óska margra sólskins-bletta.
Lífs í myrkrum löngum fann
ljósið gleðin fyrir mann;
starfa finni þægan þann
þér um jólin blómsveig flétta.
Glaðra Jóla eg þér ann,
óska margra sólskins-bletta!



# Hríð.



Dauðans lætur drunga varpa,
djúp á radda-slög
klaka-strengjuð hríðar-harpa,
heljar-bylja lög.

# Endurskin.

BROT.



Hér eg sit. Í hugskaut laginn
hef' eg margan glaðan daginn,
minninganna morgunblæinn,
mína von og æfiþrá.
Styð því fingri strenginn á.
Söngvinn ei, þó syng eg braginn—
syng þér hann, mín góða —
hefi ekkert annað þér að bjóða.

Enn eg sé það illa, farna,
inngangs sem þér tókst að varna,
þá í fölva frosts og hjarna
fann eg dauðans köldu spor;
þá komst þú með þíðu' og vor,
ástar þinnar kraft og kjarna,
klaka' af rósum bræddir —
dauðann burt frá dyrum okkar hræddir.

Hugfast var þér hönd mér rétta,
hverja mína byrði létta — — —
— — — — — —



Þegar sól við sjónbaug glitrar
svala dögg, og rósin titrar,
þegar fölnar alt hið ytra,
eg á vor í hjarta mér —
hugar-blómsveig handa þér.
Þegar vatn á svelli sitrar,
sálin hefjast lætur
ljósar öldur langt að baki nætur.

Hér eg sit. Í hugskaut laginn
hef' eg margan glaðan daginn—
minninganna sólskins-sæinn,
sælu-himin, nautna-djúp,
aftan-roða reifað hjúp. —
Sálar minnar síðsta braginn
syng eg þér, í ljóðum,
þar til nóttin eyðir öllum hljóðum.



# Kristinn Stefánsson.



Hin síðastliðna öld mun ávalt verða talin eitthvert framfara-mesta tímabilið í mannkynssögunni. Má segja, að hún hafi verið sannkallað frelsis- og framsóknar-tímabil. Margar hinar eldri skoðanir, er fjötrað höfðu mannlega hugsun um langan aldur og staðið í vegi fyrir skynsemi og þroska, hverfa nú algjörlega úr sögunni.

Þessi frelsis- og framsóknar-hugur er eigi bundinn við sérstaka staði eða einstakar þjóðir, né sérstaka flokka eða stéttir í þjóðfélaginu. Hann hefir náð til allra jafnt, og smáþjóðanna eigi síst.

Hjá Íslendingum byrjar hann að gjöra vart við sig snemma á öldinni, og um hana miðja er öll þjóðin vöknuð til fullrar sjálfsvitundar, og krefst meira frelsis og fullkomnara sjálfsforræðis, en verið hafði hlutskifti hennar fram til þess tíma. Árið 1851 ber hún fram þessa sameiginlegu kröfu á

Þjóðfundinum, og þótt rétti hennar væri traðkað þar af konungsvaldinu, verður það henni að eins stæling í framsóknarbaráttunni.

Einn söguríkasti og þýðingarmesti þátturinn í þessari framsóknarbaráttu Íslendinga var útflutningurinn til Ameríku, er hófst með árinu 1870. Þjóðin er vöknuð til meðvitundar um hagsmuni sína, tekur sig upp í stórhópum frá heimkynnum og óðulum feðra sinna, og flytur alfari til óbygða í fjarlægri heimsálfu. Var það framsóknarhugurinn og frelsisþráin, er knúði menn til þessa, hvað sem álit þeirra, er heima sátu, kann að hafa verið.

Í fyrstu lögðu þeir helst á vaðið, er yngstir voru, og var eigi mikið um útflutning fyr en vorið 1873. Þá fóru nær 200 manns af Norðurlandi, og var Kristinn Stefánsson í fyrsta og stærsta hópnum. Hann var þá rúmra sautján ára. Skipið, sem farið var með, hét "Queen", og fór frá Akureyri 4. Ágúst, og tók höfn í Granton á Skotlandi 10. s. m. Þaðan fór hópurinn með járnbraut til Glasgow og tók sér far til Quebec með skipi, er "Manitoban" hét. Stigu þeir á land þann 25. s. m., og héldu suður til Toronto. Eftir nokkra dvöl þar, fór sá hlutinn, sem ætlaði að búsetjast í Ontario, norður til Rosseau-bæjar í Muskoga, og var Kristinn einn þeirra. Dvaldi hann þar um átta ára skeið, og flutti svo vestur til Winnipeg. Þar átti hann heima lengst af eftir það.

Kristinn Stefánsson var fæddur 9. Júlí 1856, á Egilsá í Norðurárdal í Skagafjarðarsýslu. Faðir hans var Stefán læknir Tómásson, bóndi á Egilsá (f. 1807, d. 1864). Var hann talinn afburða gáfumaður og skáld gott. En flest, er hann orti, er nú glatað. Móðir Kristins var Vigdís Magnúsdóttir, Jónssonar, úr Öxnadal í Eyjafjarðarsýslu. Talin voru þau í röð efnaðri búenda þar um sveitir.

Átta ára gamall misti Kristinn föður sinn. Bjó móðir hans enn í fjögur ár á Egilsá, en fluttist því næst til Akureyrar árið 1868, og andaðist þar tæpum fimm árum síðar. Fór Kr. þá alfari af landi burt, sem fyr segir. Ungur að aldri, umkomulaus og fákunnandi kom hann nú í framandi land, og settist að úti í hálfgjörðri eyðimörk, þar sem fyrir lá hvíldarlaust erviði og strit, eða skorturinn að öðrum kosti. Má og nærri geta, að ekki voru atvinnuvegirnir fjölbreyttir né auðsóttir útlendingnum — skógarhögg og járnbrautarlagning — en þeir urðu samt til þess að stæla þol og þrek, og var þá fyrsta sporið stigið til sjálfsvirðingar og sjálfstæðis.

Hugurinn hneigðist snemma að bóknámi, en þess var nú enginn kostur, og varð því við þá fræðslu að sitja, er hann gat af sjálfsdáðum aflað sér. Var lengst af dvalið úti á eyðiskógum og í óbygðum, og eigi sem vistlegustum stöðum. Á þessum árum lærði hann þó enska tungu.

Þegar hann kom til Winnipeg (1881), var þar

orðið all-fjölmennt fyrir af Íslendingum. Bærinn var þá ungur og smár, og oft brestur á atvinnu, en tómstundirnar urðu þá því fleiri til lesturs, og aðgangur greiðari en áður að nýtilegum ritverkum. Varð hann snemma gagnkunnugur ritum ýmsra höfunda, t. d. Bandaríkjaskáldanna Longfellow's, Lowell's og Whittier's, og engelsku skáldanna Byron's, Tennyson's og Swinburne's. Var Swinburne einkum uppáhald hans; heillaði hann hinn frjálsi og djarfi andi skáld-höfðingjans, er hvorki vildi vinna sér til hróss eða tignar með því, að fara á snið við það, er hann áleit sannast vera.

Óefað hefir hann eitthvað kunnað í Dönsku, er hann fór af Íslandi, en við þá þekkingu hefir hann orðið að bæta síðar. Las hann einkum rit þeirra Björnsons, Ibsens og Drachmanns, þótt Björnson hefði hann ávalt í mestu afhaldi. Með þessu er þó eigi sagt, að hann léti hér staðar numið. Væri það að lýsa háttsemi hans öfugt, því hann las og fylgdist með því helsta, er út kom í bókmenta átt á þessum málum, öllum stundum, og hvað helst síðustu ár æfinnar.

Á þessum árum, er hér segir frá, kyntist hann nokkrum yngri mönnum á sínu reki. Höfðu vegir þeirra ýmist legið saman við vegalagningarnar úti í skógunum eða eftir að til bæjarins kom. Batst með þeim vinátta, er entist æfilangt. Dáði það hver hjá hinum, er ríkast var hjá honum sjálfum;

fjör og gáfur, drenglyndi, vinfesta og hreinskilni. Einkendi það nýlendulífið í þá daga, að vera als ódulur um það, er betur eða miður þótti fara, hreinskiftinn í orðum, glettinn í svörum og kappgjarn. Var Kr. eigi sístur þeirra, er til svara og orðahagleiks kom. Þótti líka mikið vanta, ef hans misti við í hópinn. Var það eigi eingöngu glaðværðin, er hann jók, heldur og traustið og drengskapurinn og hið djúpa vináttuþel og hlýja viðmót, er hann ávalt bar með sér. Átti við hann sjálfan, það er hann síðar kvað til æskuvinar síns:

"Þinn var andi' að tápi' og trygð
tröll í vandaflækjum." (bls. 65)

Í hópi þessum voru ýmsir þeir menn, er góðkunnastir hafa orðið meðal Íslendinga, og mun getið, meðan minst verður ísl. landnámsins í Ameríku.

Sumarið 1884 kvæntist hann ungfrú Guðrúnu Jónsdóttur, Árnasonar, bónda frá Máná í Þingeyjarsýslu, og Rebekku Guðmundsdóttur. Var Jón föðurbróðir séra Árna frá Skútustöðum.

Varð hjónaband þeirra hið farsælasta og ástúðlegasta, eins frá beggja hálfu, þó eigi á þann hátt, er oft vill verða, að annað drægi sig í hlé og hyrfi fyrir hinu, heldur þroskuðust þau hlið við hlið, svo að persónuleiki hvors um sig kom æ betur og betur í ljós, eftir því sem aldurinn óx, og mun það eins dæmi vera. Hvort átti sínar hugsanir út af fyrir sig, en þau lifðu saman og unnu saman, og höfðu bæði lag og vilja á því, að gjöra úr samlíf-

inu óaðskiljanlega einingu. Mun samúðin aldrei hafa verið innilegri né dýpri, en þegar skilnaðinn bar að höndum—eftir 32 ára sambúð.

Efnahagur þeirra mun hafa verið þröngur framan af, en úr því greiddist síðar, og var það eigi síður henni að þakka, enda mun báðum hafa verið jafn ant um, að þurfa eigi að skerða sjálfstæði sitt með því, að sækja annara hjálp.

Við opinber félagsmál fékst hann lítið, svo að á bæri, en var stuðningsmaður ýmsra fyrirtækja, er hann áleit gagnleg og miða til bóta.

Þó eigi færi hann að jafnaði í hámæli með ást sína á ísl. þjóðerni, unni hann samt af alhug ættlandi sínu og þjóð, og vildi af fremsta megni að sem innilegustum samhug stuðla milli heimaþjóðarinnar og þeirra, sem hingað höfðu flutt. Bera kvæðin þess ljósastan vott. Kunni hann jafn illa óvildarorðunum, úr hvorri áttinni sem þau fuku. Hann sá að vísu gallana í fari einstaklinganna og þjóðarinnar, en honum fór öðru vísi en þeim, er glöggvastir eru á brestina, hann sá kostina líka.

Heimilislíf þeirra hjóna var hið ánægjulegasta og fegursta í öllu. Minnast þess flestir, er til hans komu hve ólíkt heimili þeirra var því, sem tíðast er. Utan dyra köstuðu menn af sér drunganum; það varð ekki komist með hann inn. Bæði voru þau jafn gestrisin, glaðvær og hlýleg í viðmóti. Samræðurnar voru alvarlegar, oft fyndnar og fjör-

ugar, en ávalt hreinskilnar og tildurslausar Oft var það, þó byrjað væri í gamni og gletni að tala um það hversdagslega, að áður en varði voru umræðurnar komnar út í alvörumálin miklu.

Meðaumkun hans við bágstadda kom ekki eingöngu fram í orði og brosmildi. Þurfa þeir margs annars fremur. En eigi var þar verið að auglýsa hjálpina, heldur var hún veitt með sem mestri leynd. Kom þar í ljós skapferli beggja, og óbeit sú, er hann ávalt hafði á lofi og skrumi.

Á síðast liðnu vori tók heilsu hans mjög að hnigna. Flutti hann þó í sumarbústað sinn norður á Gimli, eins og vandi þeirra hefir verið til um undanfarin ár. En eigi tók heilsa hans þeim framförum, er þau vonuðust eftir, og í Ágústmánaðarlok þyngdi honum að mun. Var hann fluttur til Winnipeg þann 12. Sept., þá svo farinn að kröftum, að hann gat enga björg sér veitt. Þar andaðist hann þann 26. s. m., rúmt sextugur. Stundaði kona hans hann fram til hins síðasta. Jarðarförin fór fram þann 29. s. m. að viðstöddu fjölmenni. Er hann jarðsettur í Brookside grafreitnum, þar sem flestir látnir Winnipeg-Ísl. hvíla.

Kristinn Stefánsson var vaxinn í hærra lagi, styrkur að afli, hæfilega þrekinn og samsvaraði vöxturinn sér vel. Ennið var beint og hárið mikið og dökt framan af æfi, en gránaði snemma, augun djúp og blá, og allur var svipurinn drengi-

legur. Allar hreyfingar hans lýstu eigi bráðri lund en ríkri, eins og vildi hann sjálfur velja sér leið, en ógjarna þræða annara slóðir. Hversdagslega var hann stiltur í viðmóti, eigi orðmargur en ávalt glaðlegur og fyndinn. Lundin var viðkvæm og tilfinningarnar næmar og sterkar. Upplag hans var eigi það, að neyta liðsmunar, heldur að veita þeim, er hallað var á og minni var máttar. Hann var fastur í lund og vinhollur. Þó eigi gjörði hann sér far um að leita sér vinsælda, átti hann marga vini og kunningja, og því fleiri sem nær dró æfilokum—fleiri en hann vissi um sjálfur. Er það tíðum óbrigðulast merki um mannkostina. Fólkið virðir og metur það, sem best er og sannast, er það loks fær komið auga á það.

Um ljóð hans er hvorki rúm né tími að dæma hér, enda lýsa þau best sjálf innræti og hugsjónalífi skáldsins. En fáum mun geta dulist, að með þeim eru auðgaðar bókmentir þjóðarinnar, að í þeim er sá hljómur vakinn, er að vísu á bergmál í íslenskum sálum, en ógjarnast hefir komið fram í íslenskum kvæðum,—hinn þýði alvarlegleiki, er skilur takmarkanir lífsins, örvæntir þó hvorki né æðrast, en þráir og kýs hugsjónalífið, og gleymir aldrei draumunum um ljósið. Frá þeim andar samhygð til þeirrar viðleitni mannanna, að öðlast víðtækara frelsi, fullkomnari skilning og lifa æðra lífi. Orðfæri og skoðun er íslensk, frá þjóðinni,

en skilningur og víðsýni það, er fæst af viðkynningu við mannkynið. Í þeim eru meginlandsstraumar, og fjallahringurinn víður. Að þeim viðbættum verður sjóndeildarhringurinn víðari og litbrigðin meiri í íslenskri ljóðagjörð.— Árið 1900 kom út eftir hann dálítið kver, en er nú uppselt.

Á útgáfu ljóðmælanna var byrjað nokkru áður en höf. dó. Var hann sjálfur búinn að undirbúa mikinn hlúta þeirra til prentunar, en sökum veikindanna gat hann eigi lokið við frágang þeirra allra. Fundust ýms kvæði, er auðsjáanlega voru eigi fullsamin, önnur aftur er hann hafði byrjað á að breyta eða draga saman. Þótti útg. ekki hlýða að sleppa sumum þeirra, og tóku þær af breytingunum, er best þóttu fara, og gáfu jafnvel sumum kvæðum fyrirsagnir, þar sem engar voru. Það eitt var tekið, er þeim gat hugsast, að höf. hefði sjálfur látið prenta. Allmörg kvæði og brot eru þó eftir, sem eigi koma að þessu sinni. Auk þess eru nokkrar smásögur og greinar í óbundnu máli, er ætti skilið að komast á prent. Yrði það allstórt rit. Má vera að það komi út síðar, vilji Íslendingar sýna það í verkinu, með viðtöku sinni á ljóðmælunum, að þeir kunni að þakka og meta starf höfundarins, er verða mun vestur-íslensku þjóðlífi til sæmdar og minningar um langan aldur.

Winnipeg, 25. Nóv. 1916.

Rögnv. Pétursson.

# Efnisyfirlit.



